# Kénnslu-Bók

í

# Sagna-Frædinni

fyrir

## Vidvaninga;

samansett

af

Próf. Galletti í Gotha,

á Íslendsku útløgd

af

Jóni Espólín

Sýslumanni Kóngs í

Skagafjardar-Sýslu.

Selst almennt innbundin 23 skildíngum.



Leirárgørdum vid Leirá, 1804.

Prentud á kostnad Íslands konúnglegu Upp-frædíngar Stiptunar af Bókþryckjara M. Móberg.



# Formáli.

Svo mørgum Sagna-bókum, sem Island hefir ad hrósa, og má med réttu hrósa sér af ad ega, þegar þess fólkfæd og þraungu kríngumstædur, eru bornar saman vid annara landa, verdur samt ómøgulegt ad neita því, ad þad vanti, jafnvel hin allrafyrstu barna-frædi, til undirbúníngs þeirrar þeckíngar, sem veraldar-sagan kénnir; en þessi hefir þó virdst øllum upplýstum þjódum þess verd, ad láta læra hana í skólunum, og því er hún einnin innfærd í þessa lands skóla, en þó ecki nema á donsku. Nú frambýdur sig hid besta tækifæri til ad ráda bót á tjedum skorti, upplýs-

ínglu eykst, Prentverkid má brúk-
ast med nægilegu frelsi, og almúg-
inn fær meir og meir vidbjód á
lognum trølla- og riddara-søgum,
fóstrum þeirrar blindu midaldar,
og Páfadóms tída. Þetta hefir sá
óneitanlega mikli lærdóms vinur
og upplýsíngar Forspracki, Herra
Júftitsrád M. Stephensen, ad-
gætt, og í því tilliti mælst til, ad
eg útlegdi á vora túngu ný útkomna
Gallettis kénnslu-bók, og bætti
vid litlu ágripi Islands hellstu
tilburda, og Veraldar-Søgunnar
til 18du aldarinnar enda, med fylg-
jandi Tímatali, øllu løgudu ept-
ir Gallettis máta. Ad sønnu
var eg til þessa vanfær, einkum
hvad stýlinn áhrærir, svo sem í
honum øldúngis óæfdur, en eg á-
leit þó skyldu mína, ad bera þad
vid, bædi vegna þess, ad ótilbæri-
legt er hvørjum, sem studlad gét-
ur til landsins uppfrædingar, øld-
úng-

úngis ad grafa pund sitt í jørdu, þó ecki verdi ætid meiníngin leidd fyrir sjónir í mælskunnar fagra búnadi, og líka hins, ad eg er, sem ádur sagt, þannin hér til upphvattur. Sælt væri land vort, ef þad nyti jafnan slíkra upphvetjenda til frømunar í mentum og dugnadi; þad yrdi þess lucka med framtíd, ef svo færi, því enn þá eru margir, sem eintómt árædis- og vana-leysi hindrar frá ad leggja opinberlega fram fyrir veraldarinnar augu, røksemdir uppá vorrar þjódar gódu skynsemd og þeckíngu á morgu, sem er vonum framar. Eg ábyrgist ecki ad rits-mátinn gédjist øllum, og geng einúngis høfundarins undangengin spor, og ad fáeinum athugasemdum og vidbætirnum aptan vid Mannkyns Søguna og um Island, sem þó hlaut vera eins lagadur og hitt,

undanteknum, á eg eckért í verk-
inu; en þad er ecki heldur annad
enn Agrip Sagna-frædinnar
fyrir börn, og ad þetta sé vel
valid, er þess gódi vísinda smeck-
ur, sem valdi, nóg borgun fyrir,
einkum ef (hvad eg ecki efa) fleir-
um lærdum- og velþenkjandi Föd-
urlands-vinum virdist hid sama.

Þann 31ta Jan. 1804.

J. Espólín.

T. L.

━━━━━━━━━━━━━━━━━━━━━

# T. L.

Svo ad almenningur ætti í voru máli, ad minnsta kosti, stutt Ágrip þess merkilegasta úr Veraldar-sögunni, til ad fá mínum úngu og námfúsu Landsmønnum í hendur, vid þeirra mentun og uppfrædíngu, hefi eg bedid þann, í sagna-frædum svo vel æfda og lærda Sýslumann, Hra. Jón Espólín, ad útleggja Professor Gallettis Lærebog i Historien, for de første Begyndere, eins og hún, í 3ja sinni upplögd, var í Kaupmannahöfn útgjefin á prent, árid 1800, med Vidbætir til Aldamótanna. Hjer skal mjer nægja ad rjettlæta val mitt á þessu qveri, fyrst med því, ad eg í fyrstu bjóda vildi einúngis stutt ágrip hins merkilegasta handa únglíngum, svo ei þirftu ad vera med øllu ófródir um þesshættar tilburdi; þarnæst med því, ad sá nafnfrægi lærdi madur, Prófessor J. Kjerulf í Kaupmannahöfn, hefir, sem reyndur Medlimur af Háskólans- og lærdu Skólanna Betrunar Nefnd, og Stjórnari ýmsra Lærdóms-skóla annara, eins og sjá má af formála hans fyrir Itu útleggíngu þessarar bókar á dønsku, árid 1797, játad sig enga hentugri gjetad vísad á, enn þessa, til fyrstu undirvísunar í Eptir-ættar Fjelagsins nafntogada Real-skóla, hvørjum hann

á-

ásamt ödrum stýrdi; hvörs vegna hann og, í stadinn Yfirlits Þýdska-lands sögu, sem í Gallettis Agripi fannst, innsetti sjálfur, vorum únglíngum markverdara ágrip af Danmerkur og Norvegs Sögu, hvörri Hra. Sýslumadur Espólín, eptir mínum tilmælum, tengt hefir vidlíka lagadann, og af Sýslumanninum gjördann Vidbætir, innihaldandi Agrip af Islands Sögu.

Unglíngar, og þeir, sem lítid eda eckert vita í Veraldar-sögunni, finna hjer hentugann leidarvísir til sæmandi fródleiks í Sagnafrædi, sem vor Öld krefur nú til góds uppeldis, en hinir sem vilja meira enn barna-bók fá í þessum vísindum, gjeta valid um stærri Sögu-bækur á vora og adrar túngur, máské og med framtíd, vænt annars stærra og greinilegra ágrips af Veraldar Sögunni í voru máli; þegar meiri líklegheit gjefast, enn nú, til skadlaus forlags og útgáfu þessháttar kjennslubóka.

Innrahólmi,
þann 18da Decembr. 1804.

M. Stephensen.

Mann-

# Mannkyns Sagan yfir hofud.

## Fyrsta Timabil

Frá Adam til Cyrus 3400 ár.

1. Jørdin, mannkynsins bústadur, hefir fyrst, fyrir hérum 5000 árum sidan, hvad útvortis áſynd áhrærir, fengid núverandi løgun.

Jørdin er ad meſtu hnøttóttur málmtegunda klumpur; tveir þridjúngar af yfirbordi hennar eru vatni huldir, en faſtalandid ſtendur uppúr veraldarhafinu, ſem ſtór eyar. Eginlega eru þeſſar eyar hryggir af ógna ſtórum fjøllum, ſem ná uppúr vatninu. En þeſſa løgun hefir jardarinnar yfirbord ecki alltid haft; nockud af því nú þurra landi var fordum hafsbotn. Af jardeldum og landſkjálftum umbreyttiſt yfirbord jardarinnar. Þad ſkédi eptir 4000 árum fyrir Kriſt.

A bibl= fyrir Kriſt.

bibliunnar søgn, nær því fyrir 6000 árum sídan a).

2. Manneskjurnar, sem útbreiddar eru yfir jørdina, eru ad líkindum allar komnar frá einu pari.

Adam og Eva voru fyrstu foreldrar bjuggu í mjúkvidrasømu og føgru plátsi, hvar trén mestallt árid frambudu þeim ávexti; þau bjuggu í Paradís. Þeirra einfaldi og óbrotni lifnadarmáti orsakadi ad þau urdu nærsta gømul.

Þá Adams eptirkomendur fjølgudu, dreifdust þeir smámsaman út undir øllum himinbeltum (þ. e.: bygdu bædi heit lønd og køld).

Því fleiri manneskjurnar urdu, því meir fjølgudu naudsyn-

a) Þetta er ecki eintóm gáta, Móses segir sjálfur: Jørdin var eydi og tóm (þ. e.: ádur enn á fyrsta deginum, þá ljósid kom í loptid) og myrkur var yfir djúpinu; hann nefnir bædi jørdina og hennar afgrunn.

synjar þeirra. Ad uppfylla þær kéndi þeim sumt neydin, sumt tilfelli. Frumueldur qveikti í vidi; hér og þar brann Naphtha edur steinolja. Þannin fengu þær fyrstu manneskjur þeckingu á eldinum; smámsaman brúkudu þær hann til ad steikja, baka, offra vid. Abel og Kain Adams synir offrudu þá þegar b).

Af hendíngu fanst málmberg í eldi; málmurinn rann, og í einu lærdu menn þá kunst ad bræda málmana.

Manneskjurnar fluttu sig smámsaman út undir kaldara himinbelti. Líkamir þeirra þurftu skjól, þar til þéntu þeim húdir og skinn af slátrudum dýrum; til ad verja sig regni og stormum, leitudu þær fylsnis í hellir-



b) Mikid hafa þeir til síns máls, sem ætla Skaparinn hafi sjálfur med serdeilislegum bendingum, uppvakid skynsemi hinna fyrstu manna til ad bæta úr hellstu naudsynjum, annars hefdu manneskjurnar ordid ad koma aldúngis villtar frá hans hendi.

um edur undir þycklaufgudum eikum; undir þvílíkri eik bygdu þær sér hreysi af greinum úngu trjáuna, er þær legdu hvørja ofan á adra.

Innanskams neyddust manneskjurnar til ad strída vid villudýrin; afbrotin grein, úngt, mjótt tré hjálpadi þeim, ad minnsta kosti nockuruveginn, til ad halda dýriun frá sér; síd-an vopnudu menn annann end-ann á staung med hvøssu málm-stycki. Þanninn vard af því lensa edur spjót; væri spjótid gjørt svo litid og létt ad kasta mætti ad dýrinu erfidislaust, hét þad skotspjót; væri því fleigt med bogastreingsins lidsinni, kallt-adist þad ør; margur afrékadi þad sama med steini eda slaungu; á þann hátt feugu menn vopn til ad strída med vid villudýrin; þannin uppkom dýraveidi.

Mørg dýr, svosem kýr, saud-fé, geitur og úlfaldar, létu aud-veldlega temjast; mennirnir út-

veg-

vegudu sér hjardir af þvílíkum dýrum; þeir lærdu nú ad tilbúa smjør og ost. Þar þá í fyrstunni var allstadar nóg landrými, ráfudu þeir um kríng med hjardir sínar frá einum stad til annars.

Smámsaman komu þeir í þau pláts, hvar villi-vínþrúgur og villikorn vóx; lærdu þeir þá ad pressa vøkvann út af þeim víuberjum, sem fullvaxin vóru og ad slá kornid úr axinu; kornid átu menn í fyrstu heilt, en um sídir kom einhvørjum í hug ad merja þad í milli tveggja steina. Nú fengu menn mjøl; nú gátu þeir bakad kökur.

Loksins urdu manneskjurnar í einu héradi svo margar, ad ecki gátu lengur ferdast um kríng eptir gédþeckni. En vín- og korn-yrkjan orsakadi, ad þeim var naudugt ad víkja úr sama stad; þaraf uppkomu fastir bústadir. Nú bygdi ein kynqvísl fleiri hreysi hvørt vid annars

hlíd, og þannin urdu til smá þorp.

Því uær sem mennirnir bjuggu hvørr ødrum, því audveldlegar vaktist ófridur milli þeirra. Kain myrdti þegar bródur sinn. Nú framkomu manneskjur, sem med líkamans afli og med sambandi vid adra, kúgudu sína samkynjada til ad gjørast þrælar þeirra; jafnvel Adam og Eva høfdu mist þeirra sakleysi.

3. Mikill hluti mannkynsins eydilagdist í stórum vatnaflóds yfirgángi.

Þetta tjáist vera skéd 1650 árum eptir Adams daga; án efa hefir jafnvel þá mikid af jørdinni byggt verid.

Innbyggendur hins fremsta og sudvestlæga hluta austurálfunnar, eydiløgdust í stórum vatnagángi, sem kallast Syndaflód; ein einstøk ætt vard frelsud. Nói og hans uákomnir fluttu sig á skip, hvar á, auk þeirra, einnin morg dýr fundu hæli. 4.

4. Þau lønd hvørra Innbyggendur fyrirfóruſt í Syndaflódinu, bygduſt aptur af Nóa eptirkomendum.

Nóa ſynir vóru Sem, Cham, Japhet; Nói ſiálfur plantadi ad nýu vín, og þad nýuppkomna mannkyn nádi ſliótt aptur því fyrra í þeckíngu og kunnáttu.

Þegar fyrir Syndaflódid urdu manneſkiurnar, því meir ſem þær fiarlægduſt hvør adra, bædi ad líkamans byggíngu, lifnadarhætti og túngumálum, ſin á milli æ ólíkari. Nú vard ſá mismunur ſífeldt þeckjanlegri; þar af eru þær ſvo ólíkar ad lit og ſkapnadi, þar af tala þær ſvo margháttadar túngur; þeſſara uppruna hafa menn viljad gjora ſér ſkiljanlegann med fráſøgunni um turnbygginguna í Babylon c).



c) Þad kynni ad vyrdaſt eptirþánkavert ad ſtrax á 2 1tu øld, edur 500 árum ecki fullnia

Manneskiurnar lærdu smám-saman ad mála þánka sína, edur þær uppfundu skrifkunstina. Fyrst urdu þeir ad kunna ad minda líkami; menn tilbjuggu manns eda dýrs mind af leiri, þad var bílætasmídi, sídan mindudu þeir hana á vegg, nú hösdu þeir hálf upphafid verk edur útskurd, þar eptir drógu þeir einúngis mindina uppá veggnum og yfirstruku med Ockurs eda málmgulu; så var uppruni málverksins; nú fèll mönnum fyrst inn ad mála þánka og atburdi; þad var bílæta edur íminda skrift. Lángt leid, ádur menn urdu þess vísir, ad ecki þarf nema eitt merki fyrir sèr-hvert

um eptir flódid, hafa menn víss rök fyrir, ad túngurnar í þeim sáu löndum, sem af er sagt, og þó lági hvört nærri ödru, eckert vóru líkari sín á milli, enn þær eru nú; þær vóru ólíkar í sjálfum grundvallar reglunum; hvörnin gat útbreidsla mannkynsins byrjud fyr'r sáum öldum, og ad forfedrunum enn lifandi, haft svo stóra verkun?

hvørt hljód, hvar af ordin eru samansett. Þannin vard um-sídir til vor nú verandi bók-stafa skrift.

5 A medal mannanna uppkomu snemma Stórféløg edur Landa-stjórnir.

Félögin samanstódu í önd-verdu einúngis af ættfólki; ætt-irnar urdu smámsaman ad þjód-um; í fyrstu komu allir for-menn ættanna sér saman um þad, sem allrar þjódarinnar gagn útheimti; þetta var fólk-stjórn edur Demócratie, síd-an útilokudu nockrir af þeim hina frá hluttekníngu í stjórn-inni, þad kølludu menn Ari-stocratie. Loksins kom einn einasti því svo lángt med slægd eda valdi, ad allir hinir urdu ad hlýda honum; hann var þá einvalds herra edur Mónarch. Þegar fleiri þvílík félög ná-lægdust hvørt annad, þá byr-jadist ófridur, þá kom til bar-daga milli þeirra; sá yfirbug-

adi flockur vard ad gêfa sig til þræla; þannin urn margar þjódir meir og meir; þannin uppkomu strid; þannin uppriſu hermenn, ſem undirlegdu ønnur lønd, á medal mannanna. En einkanlega frá þeirri tid, ſyndi ſig mannanna girnd til ad vinna lønd, þá þeir tóku ſêr faſta búſtadi. Smárikin, ſem manneſkjurnar í fyrſtunni ſettu, lágu þeſs vegna ydugliga undir umbreytingum, enda vóru þau opt ecki ſtærri enn margt Greifadæmi nú á døgum; þau ellſtu vóru í Babylon, Aſſyria og Ægyptalandi. Af mørgum ſmáum vard um ſidir eitt ſtórt riki.

6. Hvi ſtærri Stjórnirnar urdu, þvi framar jukuſt kunſtir og lærdómar hjá Innbyggendum þeirra.

Babyloniſkir leidduſt vegna þeirra ſlata lands til ad athuga ſtjørnugánginn, edur ad ſtunda Stjørnu-frædina; þeir til-

tilbjuggu líka þær fyrstu sól-skífur.

Þeirra fyrstu manna lítil-fjørlegu hreysi, umbreyttust smámsaman í steinhús og skraut-legar hallir. Babylon var þegar undrunarlega fagur stad-ur. Egyptskir bygdu velund-arhúsid, Topptúrnana, og reistu líka stórar styttur, sem kallast Obeliskar.

Sjáfarstranda Innbúar tóku nú ad byrja sjóferdir; synd-andi trè gat látid þeim koma í hug ad hætta sèr út á þad; úr trènu vard bátur, úr bátn-um skip; ad róa lærdu menn af fiskunum d).

Phøniciskir urdu fyrstir til ad sigla um kríng á mid-jardarhafinu. Þeir sigldu kaup-ferda sinna vegna, þeir tilbjuggu fallegar vørur, þeir litudu pur-

 pura,

d) Hafi skip ecki verid uppfundin fyrir flódid, þurfti þó ecki mikinn skarpleika til ad upp-hugsa þeirra tilbúníng, fyrir þá, sem vissu til arkar eda skips Nóa.

pura, þeir gjørdu gler, opt tóku þeir móti ødrum vørum til endurgjalds fyrir þeirra, en hitt var lika opt ad þeir ecki vidþurftu þeirrar vøru, sem þeim var bodin, edur og menn gátu ecki goldid þeim annad enn edalmálmana, gull og sylfur; smámsaman tóku menn ad samlikja kopar, gulli og sylfri vid adrar vørur. Menn vógu hvørr ødrum málminn i hønd, um sídir urdu menn þess varir, ad hann vard svikinn. Kaupmenn settu þessvegna stimpil sinn á hann; seinna meir eignudu stjórnendurnir sér þennan rétt; menn stimpludu kringlótt málmstycki,og þanninn komu myntir upp.

Kaupmenn urdu ad bera Innutektir og Utgiftir saman; þad gjørdi þeim reikníng naudsynlegann, og til þess brúkudu þeir bókstafi.

7. A medal rikja stjórna i hinni fornu verøldu vard

hin hebraiska nafnkënnd vegna dýrkunar þeirrar ædstu heimsins orsakar.

Abraham, Jsaak og Jakob, sem tilbádu einúngis einn Gud, lifdu i Palæstína, sem Furstar er ferdudust um kríng med hjardir sínar. Jakob fór med ætt sinni til Ægyptalands, hvar Jóseph sonur hans var ordinn ædsti Rádherra. Á 400 ára tíma fjølgudu Jakobs afkomendur, Jsraelitarnir, svo mjøg, ad þeir urdu ad mikilli þjód. Ægyptalands Drottnar, Pharaónarnir, fóru med þá sem ánauduga. Um sídir kom Móses fram, til ad leida þá til Kanaans-lands. Pharaó vildi ecki leyfa þeim burtferd, fyrr enn margsháttar landplágur høfdu leidt hann á adra trú. Jsraelitarnir ferdudust nú ígégnum rauda sjóinn og sáu Pharaó, sem elti þá, druckna med øllum sínum stridsher. 1600 árum fyrir Krist.

Israelitarnir, sem Móses hafdi leidt út af Egyptalandi, fleckudu nú um kring á óbygds-um plátsum í 40 ár; á þeirri tíd fengu þeir leg sín; á þeirri tíd samdi Móses þeirra andlega og veraldlega Stjórnar-rétt. Jósúa leiddi þá um síd-ir til Kanaans, hvar þeir undirlegdu þá heidnu Innbygg-endur, og eyddu jafnvel mörg-um af þeim.

I Kanaans landi stjórn-udust Israelitarnir i 400 ár af Hofudprestum og Dómur-um; um sídir kusu þér sér
970. Konúng. Saul hinn fyrsti Konúngur, kom sér svo illa vid andlegu stéttina, ad hann var afsettur e). Hans eptir-fylg-

e) Þetta er máske heldur frekt ad álykta þann-ig, þad er of ólíkt Bibliunnar vitnisburdi; ad sönnu drap Saul nockra Presta, en hann var ádur kominn í rird; sú líklegri orsök hans afsetníngar vyrdist mjer þessi: Is-raelitarnir þurftu ad sjá óhlýdni vid lög-mál-

fylgjari David orkti þá ágætu Sálma.

Salomón sá vitri Höfundur margra rita, sem biblían vardveitir oss til handa, bygdi þad fræga musteri í Jerúsalem; en hann hélt ecki stöðuglega fram ad vera vís og gódur Konúngur.

Rhóbóams óforsjálni gjördi, ad þær 10 ættqvíslir kjöru sér eginn Konúng. Þannin uppkomu tvö Köngsríki, Júda og Ísrael, sem eptir nockur hundrud ár lidin komust í babyloniskann og assyriskann þrældóm.

## Annad Tímabil
### Frá Cyrusi til Alexanders
200 ár.

1. Allar Ríkisstjórnir, sem nafnkendarvóru í þeirri fornu

málid straffada á sínum fyrsta Köngi, annars hefdu þeir seinni Köngar metid þad einkis. Saul var of einrádur; hans óhapp var, ad hann var fyrsti Köngur, en samt má ecki neita því ad egingjarnir Prestar kunna hafa verid í Gydingalandi sem annarstadar.

verøldu, sameinuduſt undir því Persiſk a einvalds dæmi.

Ad ſönnu gáfuſt fyrir þann tíma ſæmilega ſtór ríki, t. d.: hid Aſſyriſka Keiſaradæmi; þó var ecként þeirra eins vídt um ſig, edur nádi ſvo vída til, ſem þad einvaldsdæmi Cyrus hóf.

Perſaland, hvaraf þetta einvaldsdæmi féck nafnid, var ſkattland í því mediſka ríki. Cyrus, ſonur Landshöfdingjans í Perſalandi a) var dótturſonur mediſka Kóngſins.
558 ár. um fyrir Kriſt. Þennann rændi hann ríkinu; fyrir hann yfirvann ogſvo þann ríka Crœſus, Kónginn í Lydía.

Cyruſar eptirkomendur unnu þar ad auki Ægyptaland, já! þeir útbreiddu jafnvel herradæmi ſitt allt inn undir Nordurálfuna.

2. Þeſs perſiſka einvaldsdæmis yfrid ſtóra makt vard

a) Fadir Cyruſar var Landshöfdingi mediſka Kóngſins yfir Perſalandi.

vard yfirbugud af þeim miklu máttarminni Gryckjum.

Gryckir, af hvörjum enn á þessum dögum eitt land í Nordurálfunni hefir nafn sitt, vóru í öndverdu mjög ósidud og villt þjód, sem lifdi á rótum, jurtum, akarni, og huldi sig med húdum og skinni. Útlendir menn frá Asíu og Afríku, útbreiddu konstir, lærdóma og gudadýrkun á medal þeirra.

Í fyrstu vóru Gryckir adskildir í margar smástjörnir. Þær hellstu medal þeirra vóru Athenuborg og Lacedæmon, hvörjum Sólon og Lycurgus serdeilislega gjördu tilgóda.

Gryckir urdu sídan lærimeistarar annara Nordurálfu búa; þeir höfdu ypparleg skáld, sagnaskrifara, byggingar-meistara og bilæta-smidi.

Vid þessa Grycki komust Persar í ófrid. Persa-Keisar-

arinn b) Xerxes tjáist med milliónum af her ad hafa farid til Grycklands, og hlaut þó
479. í lítilfjørlegum báti ad flýa heim aptur.

## Þridja Tímabil

### Frá Alexander til Augústusar 300 ár.

1. Med heppnasta framgángi lagdi **Alexander hinn macedoniski** undir sig þad **persiska** einvaldsdæmi.

Þau smáu stjórnarstend Gryckja vóru jafnan ósamþyck, þad notadi sér Philippus, nágranna Kóngur þeirra Macedoníu, til ad koma þeim undir sitt vald.

Phi-

b) Keijara nafn kom fyrst upp á seinni øldum, af vidurnefni fyrstu Rómversku Einvaldsherranna, Cæsar; en sídan hefir þad verid brúkad um mektuga Kónga, t. d.: í Rússlandi, Tyrkiriinu, Persia, Indíum; og því brúkast þad hjer um hinn forna Persa-Kóng.

Philippusar sonur Alexander Mikli, fór yfir á Asiuland, til ad herja á hinn persiska Einvaldsherra Darius. Prisvar mætti þessi honum med 333. mikinn her, en Alexander og hans hraustu Macedónar hlutu jafnan sigurinn. Á 10 ára tíma hafdi Alexander lagt undir sig, ei ad eins hid persiska einvaldsdæmi, heldur og einn hluta Austurálfunnar, sem þar kom ecki vid, og nú vard hann med dryckjuskap sinum sjálfur orsök í sínum dauda. 323

2. Því vídlenda ríki, sem Alexander hafdi undir sig lagt, skiptu Rádherrar hans og Hershöfdíngjar á milli sín.

Alexander lét ecki eptir sig réttkjörinn erfíngja; hálfbródir hans var stadlítill, einfaldur madur, og sá sonur, hann átt hafdi med dóttur Persa-konúngs Roxane, fæddist fyrst ad honum daudum. Af þessum hagfeldu kríngumstædum notudu sér

Rádherrar hans og Hershøfdíngjar; til ad skipta Alexanders einvaldsløndum sín á milli. Þannin uppkomu Kóngaríkin Egyptaland, Sýrland, Macedónía 2c.

3. Allar þessar og enn fleiri stjórnir, løgdu Rómverjar undir sitt herradæmi.

Rómaborg, edur sá stadur, sem Rómverjar hafa nafn af,
752. var byggd af Romulusi, dóttursyni Konúngs nockurs, hvørs úngdómssaga vyrdist mikid ýkjufull. Þessa stadar fyrstu innbyggendur vóru ad mestu leiti fólk, sem misgjørníngar edur óhøpp høfdu neydt til ad yfirgefa fødurland sitt. Eptir Romulus komu enn þá 6 adrir Kóngar. Um sídir urdu Rómverjar øldúngis leidir á kóngstjórninni. Tarqvinius hinn Drambláti var hinn sídasti
509. Konúngur.

Í Kónganá stad komu nú tveir Consúlar, sem ecki høfdu þeirra

þeirra embætti lengur enn árid. Rómaveldi fèck Frílands-stjórn. Þeir yfirmáta hraustu og hugudu Rómverjar undir-þvíngudu þar eptir hvörja ítalíska þjód ad annari, þeir fengu á þeim tídum bartskéra, tígulsteins þek og sylfurpeninga.

En Rómverjar urdu ecki ad eins mektugir í Italía, þeir útbreiddu líka þeirra herra-dæmi til annara landa, og ann-ara parta jardarinnar. Alla-reidu í Nedri-Italía a) kom-ust

a) Eg leyfi mjer allstadar ad kalla þad stóra og fræga land fyrir sunnan Alpes-fjöll, Italía; þad hefir af mörgum á Norrænu kallad verid Valland, hvar til orsøkin er sú, ad Galli, sem bygdu Fránkaríki, ádur Fránkarnir inntóku þad, ennu allt efra landid á Italíu, þeir vóru af nordur-landa mønnum kalladir Valir, hvar um Fránkaríkis vesturstrønd, hvar þeirra eptirleyfar bjuggu, vitnar; hana kølludu nordmenn Valland, en Englar kalla Vallis, þad land, hvar eptirleyfar hinnar Vølsku og Bretsku þjódar búa enn. Nú var Fránka-

ust þeir í þrætur vid Karthaginiska. Stadurinn Karthagó, á Nordurstrendinni á A-
900. fríku, var bygdur af hinni Phøniciska Köngsdóttur Dido; vegna sjófara og kaupferda urdu Karthaginiskir svo efnadir og mektugir ad þeir útbreiddust æ meir og meir, ei ad eins á Afriku, (Sudurálfunni) heldur og í Evropa (Nordurálfunni) nefnilega: á Spáni og eyunum kríngum Spán og Italíu; en sér til óhamíngju komust þeir í stríd vid Rómverja, og þessir létu ecki af fyrr enn þeir høfdu
145. umturnad Karthagini.

Eptir þad Rómverjar høfdu yfirunnid Karthaginiska, þeirra óttalegustu fjandmenn, undir-

Fránkaríki kallad nyrdra Valland (Gallia ulterior) en efri Italía sydra Valland (Gallia citerior) hvørt nafn sídan var brúkad um allt þad seinna land, eptir þad Fránkarnir høfdu umbreytt nafni þess fyrra.

irlögdu þeir smámsaman flestallar sidadar þjódir í þeirri þá kunnugu veröldu. Því fleiri lönd, sem Rómverjar inntóku, því meiri vard ríkdómur þeirra; þannin lærdu þeir einnin ad þeckja marga hluti, sem gjördu þá hófsminni og sællífari. Nú uppkomu ríkir og drottnunargjarnir menn á medal þeirra, sem fóru med samborgara sína eptir egin vild. Í fyrstu lögdu nockrir þvíllíkir saman til ad g ta brúkad þad vald, er þeir höfdu tekid sér. Loksins stjórnadi einúngis einn, t. d.: Cæsar, sem þó var myrdtur. Farsælli var systurdóttur sonur hans Augústus; med honum byrjar 29. laung röd af Rómverskum Keisurum. Þanninn vard eins valdsdæmi úr þeirri Rómversku frílandsstjórn.

Jafnframt komust Rómverjar til slíkrar fullkomnunar í kunstum og lærdómum, ad þeirra bestu rita smidir enn þá sífeldlega

lega eru lesnir í vorum skólum, þeirra túngumál, kallad hid Látínska, vard túngumál hinna lærdu, og þeirra løg gylda enn þá í réttargángi margra Nordurálfunnar ríkja.

## Fjórda Tímabil
### Frá Augústusi, til Klodevigs 500 ár.

1. Á stjórnardøgum Augústusar fæddist **Jesús Krístur**, höfundur hins kristnu trúarbragda.

Fleirstar þjódir vóru enn á þeirri tíd hneigdar til afgudadýrkunar. Gydíngarnir þar á móti dýrkudu einúngis einn Gud. Medal þeirra fæddist Krístur, sem med sínu eptirdæmafulla liferni, sínum ypparlegu lærdómum og grundvallar reglum sannadi, ad hann væri sá, sem Forsjónin hafdi sérílagi útvalid til ad kénna manneskjunum.

30 árum ept. Kriſts fædingu. Kristur fékk þegar svo marga lærisveina og áhángendur, ad

lærdómar hans og grundvallar-reglur, útbreidduſt um alla parta jardarinnar. Allar píſlir og of-ſóknir, ſem þeir kriſtnu hlutu ad lída af þeim Rómverſku Keiſ-urum, megnudu ecki ad hindra þá frá ad fjølga ódum.

Nockrir af Kriſts læriſvein-um (Gudſpjallamennirnir og Poſtularnir)ſamanſkrifudu hans tilfelli og kénníngar. Þannin urdu Nýa Teſtamentis bæk-urnar til, hvørjar ſkrifadar vóru á Grískú, Þeſſar bækur vóru ſeinna meir útlagdar margvís-lega. Þar af uppkomu þeir ým-islegu flockar (ſem høfdu ad-greindann lærdóm) af kriſtnum.

2. Þeirra Keiſara ílla rík-isſtjórn,undir hvørjum kriſtn-in blómgadiſt, orſakadi ad hínu rómverſka ríki ſmáñi-ſaman øldúngis hnignadi.

Augúſtuſar eptirfylgjarar vóru fleirſtallir Tyrannar og Sælkérar. Tiberíus, Cali- 68.
gula, Claudius, Neró.

Þeir fylgjandi Keisarar vóru mestpart útvaldir af lífvaktinni edur hernum. Þar hjá fundust þó medal þeirra gódir, svosem Vespasíanus og Titus. Sá
70. seinni umturnadi Jerúsalem a). Þegar hin Rómverska stjórn ecki vildi eptirláta hernum þann rétt ad klæda keisaratróninn, þá gafst þar med efni til ydugleguſtu og ofrikisfyllstu stjórnarbiltinga. Þar fundust Keisarar, sem ad eins ríktu fáa mánudi, vikur edur daga. Þrír, fjórir og enn fleiri Keisarar ríktu jafnvel í einu.

Um sídir útvegadi Konstan-
Hierum 312. tínus hinn Mikli Rómverjum sitt veldi og ólit aptur um nockurn tíma, hann flutti keisarasetrid til (Konstantínópels) Miklagards og tók þau kristnu trúarbrögd í lagavernd. Eptir hann urdu aptur fleiri Keis-
ar-

a) Trajanus, Antoníus pius og Marcus Aurelíus, eru líka verdugir ad nefnast serílagi.

arar í einu, uns Theódosíus Mikli aptur rikti einn yfir øllu rikinu. En undir stjórn sona hans Honoríusar og Ar- 395.
cadíusar skiptist Rómverska rikid til fulls í tvø keisaradæmi, hvørra høfudborgir vóru Rómaborg og Mikligardur,

3. Loksins tileinkudu þeir hardfengu Þýsku sér mikinn hluta hins rómverska veldis.

Þýskir og vorir forfedur vóru margrahanda þjódir, sem lifdu hvør óvidridin adra. Grúi af þeim fell inn í þau rómversku skattlønd vid Donau, og vildu brjótast inn í Italíu sjálfa, en vóru hreystilega reknir til baka af Rómverjum. Hierum 100 árum fyrir Krist.

Cæsar hratti einn þýskann Fursta út úr Gallíu (nú Fránkaríki). Augústus umbreytti þýskum løndum vid Rín og vid Donau í rómverskt skattlønd, en hitt annad af Þýskalandi gátu Rómverjar ecki lagt undir sig.

Til þess ad verjast Róm-verjum med meiri orku, bundust nockrar þýskar þjódir sín á milli í stórum sambøndum. Þannin uppkomu Svafir, Fránkar, Saxar, Gotar, sem yfirféllu hin rómversku lønd á allar sídur, og skiptu þeim loksins í milli sín; Vestur Eptir 400. Gótar gengu allt til Spánar. Í Gallíu settu Fránkar sig nidur, af hverjum landid fékk sitt núveranda nafn. England, fordum Britannia (Bretland mikla) vard fullt af Engelskum, Søxum og Jótum. Þad 476. vestlæga rómverska Keisaradæmi í Italíu var kollkastad af þeim þýska Hertoga Odoacer (Oddgeiri b)

Hundrad árum ádur komu þeir ógurlegu Húnar til Nordurálfunnar, sem þvingudu marga þýska

b) Þad er víst ad Herular, hvorra Kóngur Odoacer var, eru fyrst upprunnir úr Víkinni í Norvegi; mun hann þá ecki hafa verid af Norsku kyni?

þýſka þjód til ad flytja ſig lengra veſtur eptir. Þeirra Konúngur Attilla héldt med fyrna mikinn lidsgrúa til Fránkaríkis og ſídan til Italíu; en á 450.
fyrra ſtadnum leid hann mikid manntjón, og á þeim ſeinna lét hann med fortølum og fégjøfum koma ſér til ad ſnúa aptur.

## Fimta Tímabil

Frá Klodevíg til Karls Mikla (Karla Magnúſar) 300 ár.

1. Þau ríki ſem Þýſkir höfu, komu ad meſtuleiti undir Fránkanna herradæmi.

Klodevíg (Hlødver edur 486.
Lodvíg) frankiſkur Kóngur, tók frá Rómverjum øll þau lønd, ſem þeir enn héldu í Fránkaríki; hann útbreiddi líka Fránkaña herradæmi í Þýſkalandi, og kriſtindóminn notadi hann ſér, ſem yfirſkyn, til

ad undirþvínga sína frankískú Kóngana. Þannin uppkom hið frankíska einvaldsdæmi.

Klodevígs eptirfylgjarar útbreiddu sín yfirráð bædi í Þýskalandi og Fránkaríki, en þeir hlutu að líða, að fyrst Austurgotar og síðan Lángbardar tóku sér staðfestu á Italíu.

2. Bædi Fránkar og aðrar þýskar þjóðir komust í stríð við Arabíska.

Mahomed gjörði fyrst Arabíska nafnkéndar; hann hóf ný trúarbrögð, sem fengu svo marga áhángendur, að hann af þeirri

622. orsök hlaut að flýa frá sínum fedra stað. Þó var hans flótti sá tímapúnktur, á hverjum byrjadist heppnin í fyrirtektum hans. Mahomed kom á 10 árum allri Arabíu undir sitt vald a).

Ept-

a) Mahomeds áhángendur kölluðust Saraceni eður Serkir, og þeirra lönd Persíu og Arabíu, kölluðu Norðmenn forðum Serkland hið mikla.

Eptir Mahomeds dauda inntóku Arabiskir hvert landid ad ødru, ei ad eins á Asíu (edur Austurálfunni) heldur og í Sudur- og Nordur-álfu, en þeir gáfu sig þó ecki alla vid herferdum; þeir gjørdu líka ødrum Nordurálfu búum kunna stjørnu-frædina, reikníngs-kunstina og kompásinn.

## Sjøtta Tímabil

### Frá Karla Magnúsi til Krossleidángranna 300 ár.

1. Fránkanna Einvaldsdæmi, sem veitti Arabiskum í Nordurálfunni heppid mótstand, var frá Karls Mikla døgum eitt hin mesta makt í vorum heimshluta.

Klodevigs eptirkomendur gjørdu álit sitt ad eingu med ydugleguin skiptum og innbyrdis sundrjøld. Sídan eptirlétu þeir stjórnar sýslanir yfir-

hofmeisturum; þessir nyttu sér svo vel þá makt sem þeim var tiltrúad, ad þeir ágvördudu sjálfra Konganna tilstand, eptir innfollum sinum. Einn af þeim Pipin hinn Litli, setti á sjálfann sig frankisku kórónuna,

752. ónuna,

Pipins son, Karl hinn Mikli kollkastadi Lángbardaríki á Italiu, undirþvíngadi Saxa í Þyskalandi, og inntók part af Spáni og Ungaralandi. Einnin tók hann

800. ralandi. Einnin tók hann móti Keisara titli í Rómaborg. Karl var ecki ad eins farsæll í ad vinna lønd, heldur ogsvo ágætur stjórnari. Þetta sanna leg hans, þetta sannar sú athugasemi, sem hann sýndi í skólanna og hinnar þýsku túngu endurbót

2. Karls hins Mikla álitlega ríki stiptist aptur í fleiri smærri.

Karls son Lodik hinn Trúrækni flæktist í ópægilegum

um ófridi vid sonu sína, vegna þess hann hafdi offnemma skipt löndum sínum vid þá.

Lodvík eptirlét sér þrjá syni, sem skiptu ríki fødur síns í eins mørg smærri ríki. Þessi vóru Italía, Þýskaland, Fránkaríki. 843.

3. Þess Þýska ríkis álit var lángann tíma mikid stórt.

Þá Karlúngar vóru útdaudir í Þýskalandi, útvøldu Þýskir sér innlenda Keisara. 911. Þessir sameinudu med rómverskri Keisaratign hina þýsku kórónu.

Ottar hinn Mikli fór til Italíu og ektadi dóttur Konungs þar, sídan lét hann kórónа sig af Páfanum til Keisara, en hans eptirkomendur hlutu, til ad forsvara Keisaratignina, marga ferd ad gjøra sér yfir Alpa-fjøll. 951.

4. Þess þýska ríkis makt og álit var veikt af yf-

irgángi Ungara Nordmanna og Slava.

Ungararnir fluttu sig smámsaman út úr Mongóla Tartaríinu til Nordurálfunnar, þar til þeir umsídir nádu því landi, sem vid þá er kendt; í fyrstu vóru þeir mjøg þúngbærir hinum þýsku nábúa løndum vegna hernadar þeirra; en kristindómurinn og akuryrkjan vøndu þá smámsaman til spaklátari lifnadar.

Nordmenn kølludust af hinum sudlægu og vestlægu Evropu búum, allar þær þjódir, sem frá sømu álfu Nordurløndum sveimudu hér og hvar um kring á sjónum med smáskipum sínum, lendtu hér og þar og herjudu. Þeir tóku sér um sídir bólfestu á ýmsum løndum. Í Fránkaríki fékk Nordmandíid nafn af þeim; sídan fluttu margir norrøniskir ríkjandi Herrar sig til Englands og nidur Ítalíu:

J Danmørku, Svíaríki og Norvegi, Nordmanna fødurlandi, uppkomu líka ríki. Anschar múnkur einn frá klaustrinu Corvei í Vestphalen bodadi þar kristni a). 826.

J austurhluta Nordurálfunnar útbreiddust Slavarnir, frá hverjum Rússar, Pólackar, Bømiskir, Lausitzar og enn fleiri þjódir eru kynjadar. J Rússlandi í Novgorod (Nóagordum fornu) lagdi Rurik sømuleidis einn af Nordmønnum b) grundvøllinn til þess ríkis, sem smámsaman útbreiddist yfir allt Rússland. Pólskir og Bømiskir stjórnudust af Hertogum. 861.

5. En eingin orsakadi hinum þýsku Keisurum svo hardsenga rimmu sem Páfinn.

Páfans forgaungu-menn vóru eginlega ecki annad enn hellstu



a) Ad eins í Danmørku hvar þó kristnibodid lengi færdi litinn ávøxt, en í Svíþjód og Norvegi ávannst eckert ad marki.

b) Þad er ecki fullkomlega víst, en vidtekid.

helstu andlegrar stéttar menn edur Biskupar í Rómaborg; hinn frankiski Konúngur Pipin gaf Páfastólnum álitlegt landstycki, hvarmed grundvöllurinn var lagdur til núverandi
755. kirkjustjórnar eda Kirkestaten. Þar nú Rómaborg hafdi verid hins rómverska keisaradæmis hofudborg, þá krofdust Páfarnir ad þeir væru meira metnir enn adrir Biskupar vóru í kristindóminum, og þeir vildu jafnvel sem Krists Stjórnhaldarar á jordinni æfa nockurskonar yfirdrottnun yfir öllum ríkjandi Herrum; einkum eignudu þeir sér rétt til ad bannfæra alla Keisara og Konúnga, sem þá móðgudu.

En einginn Páfi framfylgdi frekar krofum þessum enn Gregorius hinn VII sem kalladi beinleidis Keisarann Hinrik
1077. IV fyrir sinn dómstól. Hinrik, sem þarhjá var ádur kominn í strid vid misánægda Pýska,

blant

hlaut ad milda Páfann med mjög nidurdrepsfullri fyrirgefningarbón

Pessi Gregorius hinn Sjöundi, kom því lika svo á, ad einginn af andlegri stétt mátti qvongast framar; eptir þá tíd hófst varla nockurt ríki i Nordurálfunni, sem ecki opt finndi til Páfans mikla veldis.

Til ad auka Páfamaktina hjálpudu einninn sérilagi múnkareglurnar. Múnkur kallast eginlega sú manneskja, sem tekur fyrir sig einveru, til ad gèta gèfid sig því framar óhindrud vid andaktar æfingum; seinna meir fluttu fleiri múnkar sig saman í eitt hús. Pannin uppkomu Klaustrin, hvers klausturfélags Formadur kalladist Abóti edur Prior.

Múnkarnir vóru mikid kappsamir í ad útbreida Kristnina og Páfans yfirrád. Peir settu skóla vid klaustur sín. Peir vóru ríkjandi Herra rád-

gjafar og skrifarar; en þeir hjálpudu líka til ad yrkja marg-ann jardarpart.

## Sjøunda Tímabil

Frá Krossførunum til Columbusar, 400 ár.

1. Til ad efla Páfaveldid þéntu einkanlega Krossherferirnar, hvørjar haft hafa merkilega veikun í tilliti til Nordurálfubúanna menta framfara.

Jafnvel um lángann tíma høfdu Kristnir trúad, ad hvørgi gætu þeir med meiri alvøru og fylgi framid andakt sína, enn á þeim stødum og í því landi, hvar Kristur hafdi lifad, og hvar hann dó. Þessvegna ferdudust margar trúræknar sálir til Palæstinalands. Medan hinir umburdarlyndu Arabar vóru Herrar yfir landi þessu, vóru Pílagrímarnir ecki audveldlega hindradir frá ad sá

ósk-

óskir sínar uppfylltar; en nú rédu Tyrk: at fyrir landinu, og þessir fóru svo ómiskunsamlega med Kristna, sem komu til Jerúsalem, ad þeir brádlega tóku ad klaga hátt yfir því. Þær klaganir vöktu um sidir þá ósk, ad draga hid fyrirheitna land úr höndum hinna vantrúudu.

Þetta fyrirtæki var þvílikt, sem Kristindómurinn allur hlaut ad ega þátt í. Páfinn kom 1095. því svo heim í einni samkomu hinna hellstu andlegrar og veraldlegrar stéttar Hefdingja, ad hinir sídari ásettu, ad fara til Palæstina-lands. Allir þeirra, sem réduft í þennann leidángur, festu menn kross af raudu ullarverki. Þeir kelluduft af þeirri orsök Krossfarar, og herfarirnar sjálfar vóru kalladar Krossfarir. Menn sögdu ad þad væru herferdir, sem byrjadar væru í Guds nafni, og þessvegna var eingin stétt edur aldur frígéfin frá

þeirri

þeirri ſkyldu, ad ega hlut í þeim.

Mikill her af Nordurálfubúum ferdadiſt ſídan undir leidſögn Gotfrieds frá Bouillon, til Aſiu og inntók Jerúſalem; en her þeirra Kriſtnu minkadi fljótt ſtórum og Tyrkjar

1099. þreyngdu ad þeim á allar ſídur. Þó nú kriſtnar maktir ſendu margann her þángad, gátu þær þó ecki varid Tyrkjum ad vinna Jerúſalem aptur

[1187. ur og lokſins urdu allar kroſsfarir gagnslauſar. Þeir koſtudu margar manneſkjur og marga peninga.

Hjerum 1120. Jafnframt því hafa þó kroſsfarirnar haft margar mikilvægar afleidingar fyrir Nordurálfu menn. Vid þær uppkomu Riddara-ſtéttir edur félög af Riddurum, andlegum og þjónandi brædrum, ſem í upphafi hefdu þann tilgáng ad ſtunda og vernda ſærda og ſjúka kriſtna, Þvílíkar ſtéttir vóru

Jó-

Jóhañitarnir, Musteris-herrarnir og hinir þýsku Herrar.

Jóhannitarnir hafa nú sitt adsetur á eyunni Malta. Musteris-herrarnir eru eptir einhvers Fracka-Konúngs undirlagi eydilagdir. Þeir þýsku Herrar hafa eignir sínar mestar í Þýskalandi.

En þeir þýsku Riddarar áttu og fordum Preussaland; einn pólskur Hertogi kalladi þá til lids móti þessa lands ósidudu innbyggendum. Eptir 50 ára styrjeld höfdu þeir undir sig lagt Preussana og Stórmeistari þeirra bjó í Marienborg. 1226.

En krossfarir höfdu enn þá margar adrar afleidíngar fyrir Nordurálfuna. Þær efldu þeirra italisku stada Feneya og Genuas kauphöndlun. Því þessir fluttu marga krossfara á skipum þeirra til Asíu og urdu vid þann heutugleika kunnugri Austurálfunnar landa varníngi.

Edal-

Edalmanna talan minkadi óvenjulega vid krossfarirnar. Eignir þeirra margar féllu þá til klaustra og þorpa.

Med krossferunum kom þeckíng á ödrum pörtum jardarinnar, komu nýar plöntur og ávaxta kyn, svosem: Pergamottur, Schalottezviebler, Safran, Savoikál og Sykurreyr til Norðurálfunnar.

Krossfarirnar framleiddu umráfandi Riddara og Rémana, þad er diktadar lasta og frægda frásagnir þeirra.

2. Allteins og Nordurálfubúar fluttu sig til Asíu, innféllu Móngolarnir og Tyrkjarnir í Evrópa.

Móngolar eru af því tartariska þjóda kyni. Dschinkis, einn af þeim Chanum edur Ríkisherrum, dró til sín herradæmid yfir öllum Móngolum.

Hierum 1220. Hann inntók þareptir nordurpartinn af Sjina (China) sem

þann tíma var þegar stórt Keis=aradæmi.

Dschinkis eptirkomendur skiptu hans ríki í sunnur fleiri, sem öll tilsamans vóru undir eins ædsta Chans yfirumsjón. Móngolarnir brutust nú ilka svo lángt inn í Nordurálfuna, ad þeir undirokudu Rússland 1240. og eydilögdu Pólinaland og Ungarn; hinumegin tóku þeir frá Arabiskum öll þau lönd, sem þessi enn áttu eptir.

Móngolanna ríki veikl=udust vid deilingar. Þá urdu Dschinkis afkomendur reknir aptur út af China ríki. Nú tók Timur eda Tamerlan, Hierum 1370. einn Dschinkisanna náfrændi; þad fyrir sig, aptur ad upp=reisa Móngolanna fallna ein=valdsdæmi. Hann hreif til sín í fyrstu herradæmid yfir Móngolunum í Dschagatay. Þarnæst ædi hann med her=skyldi gegnum öll hin vestlægu lönd, allt innundir Moskau; nockr=

nockrum árum sídar herjadi hann gégnum Indíaland allt ad Ganges, en þá hann bjó sig út í leidángur til Sjína,
1404. yfirféll daudinn hann.

Timurs eptirkomendur mistu ell þau lönd aptur, sem forfadir þeirra hafdi inntekid. Einúngis í Indíum vard eptir ríki hins, svo kallada Stóra Mógols.

3. Sú stjórn, sem hinir Osmanisku Tyrkjar höfu, vard varanlegri, enn Mógolanna einvaldsdœmi. Nafnid Osmanar, fengu Tyrkjarnir af einum þeirra Yfirherra, sem hinir tyrknesku Stór-Súltanar edur Keisarar eru kynjadir af. Þeir útbreiddu fljótt þeirra herradœmi rétt inn undir Nordurálfuna. Hafdi Tamerlan ecki tekid Stór-
1402. Súltaninn Bajazeth fánginn, mundi Mikligardur 50 árum fyrri hafa unninn verid af Tyrkjum; en nú skédi þad fyrst 1453. 4.

4. Þýſkir, Ungarar og Pólackar vóru þeir, hellſtu, ſem vørdn Tyrkjunum, ad brjótaſt lengra fram í Nordurálfunni.

Ungarar og Pólackar vóru nockra ſtund undir veldi eins Konúngs, ad nafni Lodviks; undir tengdaſonum hans Sigmundi og Jagell, fengu þeir, hverjir ſinn, Konúng aptur.

Sigmundur ſonur Karls Keiſara IV. bardiſt í Ungarn vid Tyrkjana, og í Böhmen vid Húſſitana a). Þeir ſeinni vóru áhángendur Jóhanns Húſs, ſem í Coſtniz hlaut deya á bálinu. 1415.

5. Í Þýſkalandi ſtè Auſturrikis húſs veldi til óttalegrar hædar.

Þar til ruddi veginn Maximilianus, ſonur Fridriks Keiſara III. Hans ektakona María dótt=

a) Hann var med mørgum ſtórum eginlegleikum, óheppinn móti hvørutveggjum.

dóttir Karls hins Djarfa, útvegadi Austurríkis húsi umráð
1477. Niðurlandanna.

Philippus, Maximilians og Maríu sonur fékk vid giftíngu allt hid Spanska Einveldi, sem á þeim tíma var samanvarid af þeim tveimur Kóngsríkjum Kastilía og Arragon.

Tengdasonur Konúngs nockurs í Kastilíu hafdi gjert Por-
1095. túgal ad ríki útaf fyrir sig.

6. Á sömu tímum komst hinn franski Knnúngur, sem var mektugastur medbidill þýsku Keisaranna, yfir frábæra makt.

Kóngarnir í Fránkaríki þurftu til þess mikinn tíma og erfidismuni, ádur þeir gætu þvíngad mektuga Hertoga og Greifa í ríki þeirra til hlýdnis. Þessir fylgdu einkum ept-
Frá 1066. irdæmi Hertogans af Nordmandíu, sem ásamt var Kóngur í Englandi og þar med átti

átti mørg lønd í Fránkaríki. Kóngarnir af Fránkaríki og Englandi høfdu því nærstum ætíd stríd innbyrdis.

Sídan vildi einn Engla-Kóngur erfa Fránkaríki allt, þar af uppkom ný styrjeld, sem stód yfir lengur enn hundrad ár. Englar høfdu þegar ad mestu inntekid Fránkaríki; en stúlka ein verndadi stadinn Orleans, og setti ad nýu djørfúng í hina Frønsku.

Jafnframt þessu vóru øll Hertoga- og Greifa-dæmi í Fránkaríki ordin sameinud, og Kóngarnir fengu þaraf mikla makt í hendur.

7. Í Nordur-Evrópa stiptadi hin danska Margrét mjøg álitlegt ríki.

Margrét dønsk Kóngs-dóttir erfdi ei ad eins fødur sinn, heldur og líka mann sinn, 1388.
sem var Kóngur í Norvegi. Nú vard hún og kosin af Svenskum, sem høfdu afsett

Kóng

Kóng þeirra; en hennar eptirfylgjarar hegudu sér svo óforsjállega, ad samband þetta vard fljótt óvinsælt Svenskum. Loksins þegar einn af þessum Kristján hinn Annar, lét aflífa hérumm 600 svenska Herra, gjørdu Svíar uppreist, og Gústav Eiríksson af ættinni Wasa, sýndi þeim vid þad uppstand svo merkilegt lidsinni, ad
1523. þeir kjøru hann til Konúngs.

Kristján Annar var nú og afsettur af Dønum og Nordmønnum; í hans stad kom Fridrik Hertogi í Holstein.

8. Nordurálfubúar løgdu jafnframt grundvøllinn til þeirra núverandi sida og upplýsíngar.

Þeir uppfundu Skotbyssur og Bókþryckjara kunstina; púdrid, sem brúkad er, til ad skjóta med, var þeckt laungu ádur enn skotverkfærin b), menn nýttu þad

b) Þetta hefi eg leyft mier ad brúka til adgreiníngar frá skotvopnum, sem ogsvo kall-

þad til ad sprengja med steina. Um sídir fell einum í hug, med púdursins hjálp ad spenna kúlu úr steini eda málmi útúr járnpípu. Þannin fengu menn fallstycki edur kjerrubyssur c). Þessar urdu sídan ad byssum, sem lypta mátti á axlirnar, samt ymsar skotbyssur og pistólur. Nürnborgari nockur uppfann hinn þijska byssu-lás. Hjerum 1340. 1517.

Ad fornu var Riddaralidid af Edalmönnum, þar á móti fótgaungulidid af borgurum og bændum, hverjir fleirstallir vóru vopnadir med spjótum og bogum. En eptir þad skotverkfærid var uppfundid, gat ecki hver einn verid skytta. Menn fundust, sem létu leigja



ast bogar og spjót. Annars veit eg eckert glöggt ord á Islendsku yfir Gevæhr, nema vopn og ecki vid fleira sem hjer er nefnt.

c) Svo nefndist í fyrndinni einhvörr fallstyckja tegund, sem flutt var fram og aptur á 2 kjerruhjólum.

sig til þess og sem vegna þess þeir fengu mála (Sold) vóru kalladir Soldátar (málsmenn).

Laungu ádur enn Bókþryckjarakunstin var uppfundin, útskáru menn mindir í tré, hverjar yfirstroknar vóru med farfa, og þrycktar á pappír. Þannin uppkomu tréstýlar eda spjøld til helgra manna minda og til spila. A þeim spjøldum stódu þegar einstøk nøfn. Loksins skáru menn heilar bladsídur af bók í tré. Johann Guttenberg frá Mainz, lét einstaka stafi skéra út af tré eda blýi. Pétur
1450. Schoiffer uppfann svo þá kunst ad steypa letur.

Sídan Bókþryckjarakunstin var uppfundin, urdu bækur med betra verdi og audfengnari. Þetta hafdi þá náttúrlegu afleidíngu, ad kunnátta og lærdómar jukust manna á milli,

## Attunda Tímabil

### Frá Kolumbusi til hinnar frønsku billtíngar 300 ár.

1. **Ameríku edur Vesturálfunnar uppgøtvan, hefir orsakad tøluverdar umbreytíngar á vorri jørdu.**

Arabar og Nordmenn høfdu þegar uppgøtvad híngad til ókunnug lønd. Arabar þecktu sæmilega vel Austurálfuna, og í Afríku var ad eins nockur hluti vesturstrandanna og sudurtánginn þeim ókenndur.

Nordmenn uppgøtvudu frá Grænlandi nockud af austurstrøndum Nordur-Ameríku. 1000.

Af Arabiskum lærdu líka Nordurálfubúar ad brúka kompása, sem sagt er Sjínesar þegar fyrir mørgum hundrudum ára, hafi kunnad med ad fara.

Utbúnir med kompásum fyrirtóku nú Nordurálfubúar meiri sjóferdir. Menn lærdu ad peck-

ja gjørr Afriku vesturstrandir. Þar í síðu Portúgísar sig eðr
1486. um fremri. Barthólomæus Diaz komst til Góðrarvonar-höfða, og Vascó de Gama var hinn fyrsti, sem hafði hug til að sigla kringum þennan til
1498. Austur-Indía.

Þannin höfðu menn fundið nýjann veg til Austur-Indíanna, hvar Portúgísar útveguðu sér álitleggr eignir og mikla makt.

Christóphar Kolumbus, genúískur að uppruna hugði enn fljótara að finna veg til Austur-Indía, sem Portúgísar heimsóktu, með því að sigla kringum Afríku, ef hann sigldi í vestur frá sömu álfu. Um síðir trúði Isabella Drottníng af Kastilíu honum fyrir premur smáskipum; með þessum komst hann, eptir hættuferð mikla, til eyarinnar Sanct
1492. Salvador.

Ko-

Kolumbus sigldi þareptir enn þá tvisvar til hins nyfundna heimshluta. Á hinni þridju ferd komst hann til fasta landsins vid Orenoko; nú vard hann áklagádur af efundarmønnum og fluttur í hleckjum til Spánar. 1500.

Jafnframt þessu fann Amerikus Vespúcius, frá Florentz, sudurpartinn af Brasilíu, sem eptir honum var kølluð Amerika. Seinna meir feck fyrst sudurhelmíngurinn, og þar eptir allt landid þetta nafn. Kólumbus, sem hellst hafdi verdskuldad þá æru, ferdadist um þær mundir í fjórda og sídarsta sinni til Vesturálfunnar, og kom til Jamaiku. 1502.

Spanskir, fyrir hverja Kólumbus hafdi þessi lønd uppgetvad, fóru med Ameriku innbyggendur, sem þeir undireins vildu undirþvínga og kristna, svó miskunnarlaust, ad þessir ad mestuleiti urdu gjøreyddir.

Skjótt komu fram adrar þjódir, sem urdu Spánskra medbidlar í ad finna lønd í nýa heimspartinum. Portúgísar undirløgdu Brasilíu og Englar útbreiddu sig sífeldlega meir og meir í Nordur-Ameríku.

Frá Ameríku kom mjøg svo mikid gull og sylfur, líka og tóbak, chokoladi, indigó, kochenilli, jardepli til Nordurálfunar. Amerikanar fengu af Nordurálfubúum brennuvín og adra áfenga drycki, sem hjálpudu til þeirra eydileggíngar. Evropæískir fluttu kaffe og sykurpløntun til Ameríku.

2. Hjá Nordurálfubúum, sem fundu Ameríku, skédi mjøg markverdug trúarbragda umbreyting.

Þegar í upphafi skiptu Kristnir sér ad meiningum til; einkanlega voktu Páfans miklu krøfur margann efa. Greindargódir menn fundu nefnil. ad Páf-

Páfans hóflausa makt ecki lét sig réttlæta af Bibliunni. Forgêfins brúkudu Páfarnir hördustu medöl til ad undirþryckja þá menn, sem létu verda vart vid slíkar efasemdir og meiníngar. Óánægjan med Páfann og hina geistlegu vard þvi framar sífeldlega augljósari.

Hér vid bættist, ad hinir hellstu andlegrar stéttar menn vóru ósáttir sín á milli, og ad stundum var meir enn einn Páfi í senn. Keisari Sigmundur lét þessvegna halda kirkjusamkomu í Costnitz, hvar einn Páfi var útvalinn í stad hinn þriggja, sem þángad til vóru.

Þessi costnitziska kirkjusamkoma orsakadi nýar óreglur, hún lét brenna Jóhann Húss, 1415
Lærimeistara í Prag, af þvi hann hafdi framfært meiníngar, sem mótstriddu Páfa-trúnni. Hússitarnir, hans áhángendur, komu nú af stad í Böhmen og nálægum löndum, ógnarlegu stridi. C 4. Húss-

Hússitarnir vóru Lúthers-
ktra forgaunguménn. Mar-
teinn Lúther, Lærifadir í Gud-
frædinni í Wittenberg á Sax-
landi, fékk af hendinguhentugleika
til ad draga mikinn hlúta vorr-
ar jardar innbyggenda frá hinni
páfalegu kirkju. Í þessari var
medal annara vana sá, ad láta
gjalda peninga fyrir aflát edur
syndanna fyrirgéfníngu. Páfinn
hafdi leigt afláts kaupskapinn
1517. Kjörfurstanum af Maintz Jó-
hann Tezel, sem fór um kring
í hans nafni, prángadi svo blygd-
unarlaust med aflátin, ad hann
þarmed uppégndi Lúther.

Lúther hafdi í fyrstunni
öldúngis ecki hugsad til ad koma
af stad umbreytingu í trúar-
bregdunum, en hans mótstödu-
menn hegdu sér í brádrædi
svo óforsjállega vid hann, ad
hann í reidi uppgötvadi fleiri
og fleiri misfellur á þeim róm-
versku kirkjusidum a), hans á-

a) Meira enn einsamalt brádrædi, líka yfir-
lagt kapp, syndu Páfa-menn bædi vid Lú-

ástædur fundu líka svo mikid medhald, ad móti þeim var tekid, ei ad eins í miklum hluta Þýskalands, heldur og í Danmørku og Sviaríki.

En innanskams komu fram Gudfrædis lærendur, sem álitu þær umbreytingar Lúther hafdi gjørt, fyrir ónógar. Zwingel, schweiziskur, og Kalvín frá Genf útskúfudu enn fleirum af grundvallar-ástædum þeirra trúarbragda, er híngad til høfdu brúkast, og hófu þau svokøllndu reformerudu trúarbrøgd, sem útbreiddust í nockrum parti Þýskalands, í Hollandi, í Schweitz, í Englandi, og ødrum løndum.

J Preussalandi orsøkudu trúarbragda umbreytíngar líka



ther og adra, sem mótmæltu þeirra kirkjurenjum. Sønn vandræ[illegible], og ecki einsømul reidi hefir ogsvo utbrynjad Lúther á móti þeim, eptir þad hann sá, hvad ávant var, þó hann, ad vonum, ecki gæti fullkomlega hreinsad lærdóminn.

stjórnar-billtingar. Þýsku Orðunnar Stórmeistari, Markgreifi Albrecht af Brandenborg,
1525. qvænti sig, og fékk Preussaland, sem arfalegt Hertogadæmi í lén af Pólskum.

Líklega mundu enn fleiri Norðurálfunnar ríki hafa dregið sig undan Páfans andlegu yfirdrottnun, ef ecki hin nýa
1556. Jesúíta-orða enn þá hefði frelsað hanns vyrðíngu. Höfundur þessarar orðu var Ignatius Lojóla, spanskur, og Jesúítum varð, sem skriftafeðrum og skólakénnendum hvervetna svo vel trúað, að þeir auðveldlega gátu gjört Lúthérskum, sem líka kölluðust Prótestantar, mikinn skaða.

3. Trúarbragða umbreytíngin, gaf nærfellt í öllum Norðurálfunnar ríkjum, efni til innbyrðis styrjaldar.

Jesúítanna tilraunir að undirþrycka hin próteskantisku trúarbregð, vóru hellsta orsökin þar til.

Í Pýskalandi orsøkudu þræturnar á milli Kathólskra og Próteſtanta, Smalkaldiſku og 30 ára ſtyrjøldina. 1547.
Þeirri fyrri framfylgdi Karl V vid próteſtanta ríkjandi Herra í Pýskalandi, hvørjir inngengid høfdu hid Smalkaldiſka ſamband. Þrjáthgi ára ſtyrjøldin 1618.
kom upp í Böhmen, hvar Keiſararnir allt ofhardt þreyngdu ad þeirra próteſtantiſku undirſátum. Bömiſkir útvøldu ſér jafnvel nýann Kóng. Peſſi var óhamíngjuſamur.
Forgéfins reyndi Chriſtján Kóngur hinn Fjórdi í Danmørku ad vidhjálpa því pýſka frelſi. Hinn ſvenſki Kóngur Guſtav Adolph, offradi því líſi ſínu, en þeirra ſvenſku og frønſku vopn komu um ſídir til leidar þeim weſtphalſka fridi. 1648.
Í Niđurløndunum uppreis vegna trúarþvíngunar ný Friſtjórn. Philippus Kóngur II, af Spáni, ſonur Karls

Keisara V, vildi þreyngja þeim prótestantisku Nidurlendíngum aptur til ad medkénna katholsk trúarbrøgd; en þared hann þarl beitti ómiskunsømustu hardud, sleppta Nidurlendíngar allri þolinmædi, gjørdu uppreist, og brutust undan því
1579. spanska herradæmi.

Eptir 30 ára styrrjøld, komu þeir svo miklu til leidar, ad hinn
1609. mektugi Spánar Kóngur hlaut ad lofa þeim 12 ára ró; efnin til ad mótstanda Spønskum, áttu þeir einkanlega þeirra útbreiddu sjóarkaup høndlun ad þacka Hollendskir sigldu kríngum Godrarvonar-høfda og
1602. tóku sér bólfestu í Kryddurtaeyunum.

Í Englandi komu tilraunir Kathólskra, ad eyda øldúngis Prótestentunum, líka svo ásetum óróa af stad, á hvørjum þeirrar ágætu Elizabethar
1558. vitsmunir þá gjørdu endir.

I Fránkaríki braust út veruleg trúarbragda styrjöld, og einusinni vóru margar þúsundir hinna Reformerudu, svikssamlega myrdtir af þeirra Kathólsku medbrædrum. 1572.

4. A nýari tímum, einkanlega á vorri öld, hefir ösundsýki milli Austurrikis og Fránkaríkis orsakad mörg stríd.

Fránkaríki hafdi tekid fyrir sig þann fasta ásetníng, ad veikja Austurríkis húss mikla veldi. Þar til studladi allraheltst hinn ærugírugi franski Kóngur Lodvik XIV, sem ríkti í 72 ár; hann vildi útbreida sitt ríki uppá kostnad nábúa sinna. Þessvegna útvegadi hann sér ófrid mikinn her, hverjum hann sídan ecki sleppti. Þessvegna hugsadi hann, ásamt Hershöfdíngjum hans, svo kappsamlega uppá medöl til ad gjöra herinn sem fullkomnastann. Medal annars innfærdi hann

mondura edur stríðsmanna-
búníng og bajonetta edur þrí-
strend stíngvopn á byssunum.
Sú franska stríðsstjórn vard nú
til eptirbreytnis fyrir annara
ríkja her.

Þessa ágætu stríðsmakt brúk-
adi Lodvík til ad þríka lönd
frá nábúum sínum. Fyrst tók
hann frá Spønskum ein hluta
af Niðurløndum þeirra; þar
næst vildi hann undiroka Hol-
lendska, og var þegar á veg-
1672. inum til Amsturdams, en
Keisarinn, Spán og einkum sá
hrausti Kjørfursti Fridrik Vil-
hjálmur hindrudu hann í fram-
qvæmd síns ásetnings. Sídan
rédist hann á Þýskaland óvid-
1680. búid og vann Strasborg og
adra stadi. Keisarinn var rétt
um þad leiti flæktur í stríd vid
Tyrkjana og þessir høfdu jafn-
vel lagst um Wien. Því vard
1683. ad semja sættir vid Fránkaríki.

Karl hinn Annar var síd-
1700. arstur af spanska Kónga húss
karl-

karlleggnum. Keisari Leopold, er þá ríkti, var kominn af Ferdinand I bródur Karls V, hann hafdi þessvegna grundvalladann rétt til ad erfa hid spanska einvaldsdæmi. Þar med var hann giptur systur Karls II; en Lodvík XIV, sem ogsvo átti systir Karls II kom því svo, ad Karl útnefndi Hertogann Philippus af Anjou til erfíngja hins spanska einveldis. Þaraf reis 13 ára styrjøld. Jafnvel þó Keisarinn hefdi England, Holland og Savoien í sambandi med sér, fékk hann þó einúngis einn hluta hins spanska einvaldsdæmis, og sá franski Prins Philippus héldst vid í kóngdómi á Spáni. 1712.

5. Utbreidsla hinar frønsku maktar þreyngdi einkum ad Stór-britanníu, það er: Englandi og Skotlandi.

Jakob hinn I, sem kom eptir Elízabethu, sameinadi Skotland 1603.

land og England, og vóru
sídan bædi rikin kollud Stór-
britannía; en Jakob og hans
eptirfylgendur vildu stjórna med
of miklu rádríki og innfæra ka-
thólsk trúarbregd. Karl I leiddi
þarmed yfir sig þau óhamings-
ju forlog, ad þegnar hans gjordu
1649. uppreist á móti honum og líf-
létu hann. Kromwell, hellsta
orsøkin í hans dauda, stjórnadi
svo med Prótectors titli.

Eptir Kromwells dauda,
kom Karl II sonur þess líflátna
1660. Karls I til stjórnar. Þó hann
vissi útfarir fedur síns var hann
þó ecki nógu forsjáll; enn þá
óforsjálli var samt hans eptir-
fylgjari Jakob II, sem líka var
1688. afsettur. Nú vard hans tengda-
sonur Prins Vilhjálmur hinn
Þridji af Oranien, Kóngur í
Stór britannía, og Jakobs
karllegs afkomendum vildi ecki
luckast ad komast sídan á hinn
enska trón; eptir Vilhjálm
rikti Jakobs Annars dóttir,
Anna. Anna

Anna fèck Georg I Kjörfürstann af Hannóver dóttur dótturson Jakobs I til eptirfylgjara. Bádi hann og hans erfingjar hafa jafnan veitt Austurríkis húsi trúfast lid móti Fránkaríki. 1714

6. En— Rúsland og Preussaland höfdu ásamt mikla verkun til vors veraldar hluta ásigkomulagis.

Rúsland vard af Pètri hinum Mikla umskapad-i eitt hvert hid hellsta ríki. Pètur hafdi tekid fyrir sig ad mýkja þjódar sinnar villu-sídi, og innkoma hjá henni smeck á kunstum og lærdómum. Þar til uppbvatti hann sína Rússa og ei ad eins med tilskipuninum, heldur ogsvo med egin eptirdæmi. Í Hollandi gaf hann sig til ad læra skipstymburmannsverk, og heima hènti hann fyrst vid herinn sem trumbuslagari. Þannin skóp hann smámsaman land- og sjó makt sína; hann byggdi líka Pètursborg. Pèt- 1703.

Pétur uppskar svo í stríd-inu vid Karl Kóng af Svía-ríki, ávexti sinnar vidleitni. Karl, úngur, røskur Kóngur, vildi verda líkur þeim fræga A-lexander, og þarfyrir vard hann ad lifa miklu æfintýra líferni. b) Augústus II Kóngur í Póli-na-landi, hafdi gjørt samband vid hinn rússiska Pétur og Dana-Kóng, til þess ad svipta hann ýmislegum løndum, en med 8000 Svenskum, sigradi Karl
1706. vid Narva 80,000 Rússa og neyddi Augúst Kóng, hvers land hann var innfallinn í, ad afsegja sér hinn pólska trón. Nú vildi hann líka audmýkja hinn rússiska Pétur, en þessi
1709. sigradi hann vid Púltava, og Karl flúdi til Bender. Þar var

b) Samlíkingin í dønskunni er dregin af Ko-medium, edur Gledispilum og ordatiltæk-id ó-íslendskt; meiníngin er: hann ljek á veraldarinnar stóra leikvelli, sem æfintýra riddarar, hverjir ed gáfu sig út í allskyns háska.

var hann 5 ár. Á medan tóku fiendur hans frá honum hvert landid eptir annad. Karl, sem vildi inntaka gjörvalt aptur, vard skotinn fyrir Fridriks-hald í Norvegi. 1718.

Á medal þeirra stjórnenda, sem nyttu sér Karls ofdyrfsku, telst líka Kónguinn af Preussalandi Fridrik I, sonur Kjer-furstans Fridriks Vilhjálms, 1701. setti uppá sig kórónuna í Kö-nigsbergi; hans sonur Frid-rik Vilhjálmur I gjördi hann preussiska her eins fullkominn, og fjölmennann; hans sonur og eptirfylgjari Fridrik I brúkadi her og peninga fødur síns til ad inntaka Schlesien med; Hentugleiki gáfst honum þar til, þá karlleggur Austurrikis húss útdeydi. Karl VI eptir-lét sér einúngis 2 dætur, hin eldri þeirra María Theresia, erfdi øll hans lønd; nú kalladi 1740. Fridrik eptir nockrum schlesi-skum Furstadæmum, sem, hann þókt-

þóktist hafa rétt til. María Theresia vildi ecki ljúflega sleppa þeim við hann, hann inntók þá alla Schlesien, og með því María Theresia undireins var komin í stríð við Fránkaríki og Bajern, þá hlaut hún að friðkaupa sig við Kónginn, með því að eptirláta honum alla
1742. Schlesien.

María Theresia girntist að ná Schlesien aptur; hún gjörði því samband við Rússland, Saxlands Kjörfursta og
1756. Fránkaríki, móti Fridrik II. Þessi hafði enganu í sambandi nema England, sem var komið í styrjöld við Fránkaríki út af landamerkjum í Ameríku. Nú hófst 7 ára stríð. Fridrik varði sig, þó hann hefði marga fjandmenn, svo ágætlega, að þeir eckert gátu frá honum tekið. Við friðinn í Húbertsborg lendti við sama, sem fyrr
1763. hafði verið.

Mik-

Mikid þægilegt tilfelli fyrir Fridrik, var daudi hinnar rússnesku Keisarainnu Elizabethar, hennar eptirkomari Pétur III lét Rússa, sem annars höfdu barist á móti honum, sameina sig hans her. Pétur var ad 1762.
sönnu strax á sama ári settur af ríki, en Drottning hans Katrin II, sem fylgdi honum í stiórninni, átti þó engann hlut framar í stridinu vid Fridrik.

Katrin II hefir ei ad eins frábærlega aukid þess yfirmáta stóra rússiska ríkis velgengni og makt, heldur líka svo verid ád marki vidreidin hinna annara Norduerálfunnar stiórna ásigkomulag, einkanlega var þessi tilhlutan þeckjanleg í tilliti til Pólinalands. Med hennar 1763.
lidsinni vard Greifinn Stanislaus Augústus af Poniatowski Kóngur. Med hennar hjálp fengu Dissidentarnir, þad eru þeir, sem ecki höfdu 1772.
þau

þau drottnandi trúarbrögd í Pólinalandi þeirra forna rétt og frelsi. Sá mikli órói hvörjum kathólskir Pólakkar í því tilliti komu á gáng, gáfu nábúa mektunum í Austurríki, Rúslandi og Preussalandi, hentugleika til ad eigna sér álitlega landsparta af Pólinalandi.

Katrín komst líka í stríd vid Tyrkjana, vegna þess hún lidsinti þeim pólsku Dissiden-
1768. tum. Rússar höfdu nær því allstadar sigur. Medal annars brenndu þeir upp tyrkneskann skipaflota, og Tyrkjar hlutu loksins ad gángast undir mjög
1774. ávinníngslausann frid.

Tyrkjum fundust þessir fridarskilmálar og afleidíngar svo þúngbærar, ad þeir endurnýudu strídid vid Rúsland. Keisar-
1787. inn Jóseph II stód volduglega med Katrínu. Menn hugdu ad Tyrkjarnir mundu þegar verda gjörsamlega útreknir úr Nordur-

urálfunni, en Tyrkjar verdu sig mjøg hraustlega, og þó Austurrîkis menn og Rûssar tœkju nockud frá þeim, kom þó Preussa Kóngurinn Fridrik Vilhjálmur þvî svo þeim, ad þeir fengu alltsaman aptur. 1791.

7. Fránkarîki, sem híngad til hafdi haldid Nordurálfunnar mœtum î jafnvægi breytti skyndilega sínu einvaldsstjórnarformi î Frîlands stjórn.

I Fránkarîki skédi þá hid sama, sem á seinustu 20 árum ad mestuleiti af Frønskum, hafdi verid komid á gáng î ødrum løndum og rîkjum.

Hid fyrsta eptirdœmi gáfu hin ensku skattlønd î Amerîku; þeirra innbyggendur vildu njóta sama réttar og frelsis, sem medbrœdur þeirra î Englandi; samt vildu menn halda áfram î ad fara med þá eins og hinar evrópæisku módurstjórn-

stjórnir c) eru vanar ad fara
1774. med Kólóníur sínar. Þetta kom þeim til ad gjöra uppreistz og Amerikanarnir framfylgdu, undir Washingtons herstjórn strídinu med þvilíkri hreysti og
1783. stedugllyndi, ad England eptir 9 ára rimmu, hlaut ad eptirláta þeim ad vera sjálfum stjórnandi fólk. [illegible]annin uppkom Nord-Amerika frístjórn, hvörrar makt og blómgan ser sífeldlega varandi.

Medal annara Nordurálfunnar stjórna, hafdi sérílagi Holland lidsinnt Nord-ameríkönum mikid. Þetta orsakadi stríd milli Engla og Hollendskra; þeir seinni vóru eldúngis ecki vidbúnir sjóstrídi, og þarfyrir vóru þeir óheppnir í því. Erfdastjórnarhaldarans fjandmenn, svo kalladir födurlands vinir, nýttu sér þessar [illegible] kríng-
[illegible]

c) Adallöndin af hvörra innbúum hin, sem kallast Kólóníur, eru byggd.

kríngumstædur til ad gjöra hann hatadann. Þaraf uppkomu miklar óeyrdir, sem þó fljótt aptur urdu sefadar af stridsher nockrum, sem Preussa-Kóngur sendi til Hollands. 1787.

Eins vóru Austurrikis Nidurlöndin óánægd med sína stjórn. Jóseph II gjördi ofmargar umbreytingar kirkjum þeirra og skólum vidvíkjandi; þad mislíkadi Klerkunum d). Nidurlendíngar vildu nú, eins 1789. og nábúar þeirra Franskir, losa sig frá því, ad ábánga ödrum. Þeir gjördu þetta um þann tíma, sem Jóseph II var flæktur í hid hættulega Tyrkja strid og 1790. daudlegur sjúkdómur héldt honum kyrrum í Wien. Leopold II kom þeim þó aptur til hlýdnis.

Franskir, sem Nidurlendíngar höfdu valid sér til ad breyta eptir, afrekudu miklu

 meira

d) Svo kallast rjettilega allir Geistlegir yfir höfud.

meira. Sá dróttnunar-girugi Loðvík XIV og hans eptirfylgjarar, hefðu komist í svo miklar skuldir, að þeir, einúngis til að spara rentunnar af þeim, hlutu að uppáleggja þeirra undirsátum mjög svo mörg og mikil gjöld, samt vóru þessi gjöld ecki nóg til að bæta úr stjórnarinnar þörfum. Kóngurinn og Ráðherrar hans létu þessvegna halda samkomu af aðskiljanlegra stétta fulltrúum, eður þjóðar samkomu; en Ráðherrarnir urðu brádt varir við að þessi vildi engum nýjum álögum sæta, og miklu heldur minka Kóngsbyrðar yfirlætið; nú átti því að slíta þjóðarsamkomuna, og Soldátar vóru kalladir til Parísarborgar.

1789 þañ 14da Julí. En, hastarlega brautst út ofrikisfull stjórnarbilting í París. Þjóðar-samqvæmið gjörði merkilegt skarð í Kóngsins rétt. Það gjerdi enda á edalmanna stand-

ſkandinu, og aftók øll ſtipti og klauſtur e).

Margir hinir helſtu franſkmenn, ſem óánægdir vóru med þeſſa ſtjórnar-breytingu, fengu vidteku í Þýdſkalandi. Því ſagdi þjódar-ſamqvæmid Leopolds eptirfylgjara, Frantz II, ſtríd á hendur. Þeſſi lét í ſambandi vid Preuſſa, herfør gjøra til Fránkaríkis. 1792 April.

Þegar þýdſkir nálægduſt, fyrirfell nýtt ofríkisfullt ſjónarſpil í París. Kóngsættin vard ſett í hardt hald. Kóngurinn ſviptur tign, og auglýſt, ad Fránkaríki ſkyldi þadan af ſtjórnaſt ſem Fríland (Republic). Lodvík XIV og hans Drottníng María Antoinette, Maríu Thereſíu dóttir vóru líflátin. Sømu forløg reyndu 1793. margar þúſundir adrar manneſkjur, ſem álitnar vóru vinir kóngs-ſtjórnarinnar.



e) Og lagdi þeirra inntektir til ſtjórnarinnar.

Jafnframt hafa Franskir verid yfirmáta sigursælir móti þeirra mørgu fjandmønnum; og þó þeir undir eins hafi blotid ad strída vid Austur-
1795. ríki, Preussaland, England, Holland, Neapólis, Sardiníu og hid Þýdska ríki, hafa þeir samt haldid fjandmønnunum frá sínum landamerkjum, inntekid Holland, sett þad í nýtt Frílands-stjórnar form og samtengt sér þad náqvæmlega, inntekid teluverd lønd frá Þýdskum, og efsta part Italíu, hvar líka hvervetna skapast Frílands stjórnir, og eptir þad fridur var gjørdur vid Preussaland, Spán og Sardiníu, hvert fyrir sig, bídu menn lengi almennilegs fridar.
1791. Einnin í Póllnalandi, var innleidd ný stjórnar-adferd; þessi umbreyting misþócknadist miklum hluta hinna pólsku Herra, sem og hinni rússisku
1792. Keisara-innu. Hún gjørdi út her-

herfør til Pólinalands, og Pólackar sáu sig neyddа til ad hætta nýá stjórnar forminu. Par eptir urdu á ný álitlegir 1793. partar Pólinalands undirlagdir af Rússum og Preussum. Um sídir vaknadi Pólackanna hugrecki. Peir stódu á móti 1794. Rússum og Preussum, undir Koschiuskós herstjórn, en þessi vard fánginn af Rússum, og Warschau inntekin.

## Vidbætir
### Frá dauda Fránkaríkis Kóngs Lodvíks XVI 1793 til Alda-mótanna.

Auk ádurtalinna vidburda gáfu þau 8 ár, er þvínær lidu frá dauda Lodvíks *XVI* Franskra Kóngs, til Atjándu Aldar lokanna, marga minnisverda.

Pví sem eptir var af Pólinalands ríki, skiptu Rússland, Preussen og Austurríki

riki med sér. Köngur Stanislaus, sviptur tign og riki, dó
í Pétursborg; med honum
1798. útdó og Pólinalands riki.

Rússlands Keisarainna Katrín II átti lítinn þátt í fransta stridinu, en vardi meiri áhyggju til ad blómga og audga sitt riki. Í fyrstunni stód eptirmadur og sonur hennar Páll
1799. Petrowitsch I mannlega med Austurriki og Englandi, en yfirgaf sambandid sídan, og vard Enskra hvildar = madur, um Aldamótin.

Schweitz eydilagdist mjög
1798. af Franskra misjefnu medferd, uppáneyddu stjórnar-formi eptir Franskra vild, og þó mest af því, ad Rússar, Austurrikis og franskir hermenn veldu sér þar stridsvöllu, þegar stridsloginn gaus aptur upp.
1799.

Holland, edur þau nú svo-nefndu batavísku frílönd, fengu
1798. stjórnarform eptir frensku snidi, mistu mestallt kaup-höndlunar megn

megn vid ógjæfusemafdrifbardag-ans vid Texel-fljótid mót Enfk- 1797.
um og gjørvallann missir síns her-skipaflota þá og 1799, af svika forrádum í Enskra vald, sem einuinn hafa unnid hinna hellstu eignir í ødrum heimsálfum.

Stjórnarform Franskra vard morgum umbreytingum undir-orpid, og á þessum tíma med þremur stjórnarløgum margvís-lega nidurskipad; seinast á øld-inni var þar innleidd 3gja Con- 1799.
sula stjórn, hvørri eftir ednr Yfir-Consul var valinn Na-poleon Buonaparte, sem í nockur undanfarin ár, hafdi med minnisstædustu sigurvinníngum í Italíu og Austurríki, ávunn-id sér ódaudlegann ordstýr, komid á fridi vid Keisarann í Campoformidó, stiptad Frí- 1797.
landa-stjórnir í Italíu, verid 1798.
sendur med fjølmennann her til Egyptalands, og eptir þad Franskra herskipa-floti vard skømmu eptir gjøreyddur sama

ár í þeim ógæfusama bardaga vid Enska hjá Abúkir, barist og framgengid, sem hetja, um þau lønd; á sama tíma hafdi strídsluckan heima, mjøg svo hafnad frønskum bædi í Þýska-landi og Italíu og orsakad þar med almennings óánægju med frønsku stiórnina. Þessi mikli madur Buonaparte kom til frelsis síns fødurlands heim aptur þá minnst vardi, og kom
1799. med manndómi og dugnadi án sverdslags seinast umgétnu stjórnarformi í stand; vidréttu sídan herfaranna ógæfulega ástand med nafnfrægri herfør sinni
1800. yfir Alpa-fjøll inn í Italíu, og mikilli sigurvinningu sama ár, hjá Marengo, mót sambundnum Vallands og Keisarans her, hvørrar afleidingar urdu farsæll fridur, saminn í Luneville ári sídar vid Keisarann og Þýdskaland, og vid England í Amiens. Þá urdu og á ný tilsettar fri-
landsþ

lands-stjórnir á Italíu, sem kunnugar eru undir nafninu Cisalpinien, sem seinna nefndist italiskt frilandi, og úr Genua liguriskt Frilands-stjórn; Páfi Pius VI var fluttur sem fángi til Fránkaríkis, hvar 1799. hann dó, en lönd hans hertekin af Frönskum, sem þó ári seinna, leysdu haus nýkvalda eptirmanni Páfi Píusi VII 1800. nockurn hluta þeirra aptur. Catholskt trúarbrögd fengu á ný yfirráð í Fránkaríki, og öll trúarbrögd vóru þar umlidin. a)

Ferdínand IV Köngur í Neapólis og Sikiley, keypti 1796. sér dýrann frid af Frönskum, en eptir missir Franskra í bardaganum vid Abukir, braut 1798. hann sem adrir fridinn vid þá



(a Það vidkemur 19du öldar sögunni ad lýsa hennar merkis tilburdum, og medal þeirra, Buonapartes krýningu, þann 9da Nóvembr. 1804, af Páfanum, til Franskra Keisara, med nafninu Napoleon I.

á nh, inntók ad meſtu Rómaborg, en vard ſkyndilega burtþrækinn, ſviptur meſt ølln af ríki ſínu og neyddur til ad flýa til Sikileyar. Franſkir vóru vel á veg komnir ad ſtipta úr ríki hans frílands-ſtjórn, er nefnaſt átti hin parthenopæiſka, þegar ſtrídslukkan um ſinn yfirgaf þá, og Enſkra, Þýdſkra, Ruſſiſkra og Tyrkja ofurefli ſetti Ferdinand aptur í veld og ríki, ſem á ný
1799. ſkóſt med ógnarlegri blódsúthellingu þeirra, er grunſamir þeſduſt um hlutdeild í ſeinuſtu ſtjórnar umbrotum þar. Vid fridinn í Florents fengu Franſkir eynna Elba og Stato degli Præſidij.



Tíma-



## Tímatals uppteikuan yfir mannkynsins merkilegustu vidburdi.

I. Frá Adam til Chrusar, 3400 ár

4000. árum (fyrir Krist) lifdi Adam og Eva.
2350. komst Nóah af á einu skipi.
2000. ferdadist Abraham umkring í Kanaansiandi.
1550. leiddi Móses Israelitana út úr Egyptalandi.
960. voldu Israelitarnir Saul til Kóngs.
753. byggdi Rómulus Rómaborg.
600. nidurradadi Sólon Athenu stjórnarhætti.

II. Frá Chrusti til Alexanders, 220 ár.

558. hóf Cyrus hid persiska einvaldsdœmi.
509. var Tarqvinius hinn Drambláti útreckinn af Rómaborg.
480. flúdi Xerxes fyrir Gryckjum.

III. Frá Alexander til Augústusar, 300 ár.

333. fór Alexander herför sina til Asiu.
263. byrjadi styrjoldin miki Rómverja og Karthaginiskra.
113. fiellu Þýdskir fyrst inn í hin rómversku lond.

IV. Frá Augústusi til Klodevigs, 500 ár.

29. fiekk Octavius sigur vid Actium.
1. var Kristur fæddur.
70. umturnadi Títus Jerúsalem.
312. tók Konstantínus hin Mikli kristna trú.
395. skiptist hid rómverska keisaradæmi í hid austlæga og vestlæga.
476. gjördi Odoacer endir á þess vestlæga Rómaríkis magt.

V. Frá Klodevíg til Karla-Magnúsar, 300 ár.

486. hóf Klodevíg hid frankiska einvaldsdæmi.
622. flúdi Mahómed frá Mecku til Medínu.
752. setti Pipin Litli kórónuna uppá sig.

VI. Frá Karla-Magnúsi til Krossleidángranna, 300 ár.

800. vard Karl hinn Mikli kórónadur til Keisara.
830. predikadi Anschar í Nordur-evrópu
843. skiptist Karlúnga einvaldsdæmi.
950 ljet Otto I setja á sig Keisara kórónu
1077. hlaut Hinrik IV ad audmýkja sig fyrir Gregoriusi VII.

VII. Frá Krossleidángrunum til Kolumbusar, 300 ár.

1150. brúkudu Nordurálfubuar þegar kompásinn.
1126. byriadi Þýdska (Riddara) Ordan ad inntaka Preussaland.

1227.

1227. deydi Chan Dschinkis.
1308. løgdu Schweizar grundvøllinn til þeirra frelsis.
1340. høfdu menn þegar fallstycki og kjerru-byssur.
1400. æddi Tamerlan med herskyldi gegnum veroldina.
1453. inntóku Tyrkjar Miklagard.
1457. var hinnar fyrstu bókar prentan med málmstýl fullgjørd.
1486. fann Diaz Gódrar-vonar-høfda.
1492. uppgøtvadi Kolumbus Ameriku.

## VIII. Frá Kólumbusi til hinnar frønsku billtingar, 300 ár.

1497. sigldi Vascó de Gama kríngum Gódrar-vonar-høfda til Austur-Indíanna.
1500 vóru Vasa-úhr uppfundin.
1517. predikadi Lúther amóti aflátz prángainu.
1556. deyr Ignatius Loiola.
1579. gjørdu hin sameinudu Nidurlønd samband sitt.
1598. var Siberia fundin.
1644. kom fyrst Kaffe til Nordurálfunnar.
1648. var Westphalski fridurinn fullgjørdur
1689. vard Petur hinn Mikli Rússlands stjórnari.
1700. stje franskur Kóngsson á hinn spanska trón.
1709. vard Karl XII sigradur vid Pultava.

1740. útdeydi karl-leggur Austurríkis húss með Karli VI.
1756. byrjaði 7 ára styrjøldin í Þýðskalandi.
1772. eignaði Austurríki, Rússland og Preussaland ser pólsk lønd.
1783. hlaut Stórbritannía að játa sínum Norðamerikanisku skattlondum egin stjórn.
1789. byrjaði franska stjórnar-billtíngin.
1791. umbreyttu Pólackar þeirra stjórnarformi.
1794. misti Pólínaland það frelsi, að vera Ríki út af fyrir sig.
1795. var Holland inntekið af Frøkkum.
1797. samdist friðurinn í Campóformido.
1798. fieck Holland franskt stjórnarform, en misti kaupheondlunar megn; hóst ógiæfusøm herfør Franskra til Egyptalands.
1799. innleiddist Consula-stjórn í Fránkaríki. Páfi Pius VI dó þar sem fángi. Grimmt manndráp framfór í Neapólis.
1800. Buonapartes herfør yfir Alpafiøll. Var Páfi Pius VII valinn.



II. Daft-



# II. Danmerkur og Norvegs Saga.a)

## I.

### Til Gorms hins Gamla í Danmørku og Haralds Hárfagra í Norvegi, árid 883 eptir Krists fædingu.

1. Nordurlandanna ellstu innbyggjarar urdu snemma kunnugir í sannri sagnafrædi, af þeirra utanlands herførum og sigursældum í sydri løndunum. Dan-

a) Hvorki hier ne fyrri má ordid Saga takast í eginlegri merkingu; ordid Historia verdur ecki útlagt á Íslendsku, þad merkir skodunar vísindi heimsins tilburda; þad er annars alkunnugt, og fleirstir meina med því Søgu.

Danmerkur, Norvegs og Svípjódar innbyggendur eru af tveggja þjóda kynqvíslum, Finna og Jóta edur Gota, sem komnir vóru frá Asíu, hvadan þeir hefdu med sér nockra mentun. Sagt er í hkjusøgunum, ad Odinn einhvørr orsaks ad hafi høfud umbreytíngu í ástandi þeirra; en sú tíd, er hann lifdi á, er óvíss, og athafnir hans umvafdar skrøksøgum; og þær tilraunir, sem gjørdar eru til ad koma líkindum á hinar gømlu sagnir um hann, eru ad eins vidteknar meiníngar.

Hierumm 150 árum fyrir Krists fædingu. Þær fyrstu utanlands herfarir hédan frá Nordurløndum eru: Cimbranna frá Jótlandi, og Tevtónanna frá Hólsetulandi, sem eptir mikid ferdalag umkríng, og hreystilegar athafnir í Þýskalandi, Fránkariki og efri Italíu, urdu hinni mektugu Rómaborg ad ógnum, hvør þó vard fríud frá

þessi

þessum óttalegu fiendum af C. Marlúsi; sem yfirvann Tevtónana vid Aqvæ Sextiæ (Aix í Próvence) og Cimbrana vid Verónu (Vercelli). Hjerumm 100 árum fyrirKrists fædingu.

Lángbardar er sagt útgengnir sèu frá Nordur Jótlandi. Þeir fleckudu sídan lengi umkring í Þýdskalandi, Pólinalandi og Ungarn, og inntóku um sídir, undir þeirra Konúngs Alboins herstjórn, efsta hlut Italíu, og hèldu honum í meir enn 200 ár. Nálægt Krists fædíngu. Arid 568 eptirKrists fædingu.

Englar og Saxar fóru frá Slesvík, Holstein og Jótlandi til Britanníu, og eptir meir enn 200 ára styrjöld inntóku England, hvörju nafni landid var kallad eptir þeim. 449.

Gotar og Herular vóru líka Nordurlanda fólk; þeir fyrri urdu nafnkunnugir af þeim lendum, sem þeir inntóku á Italíu og Spáni, og hinir seinni af hins vestlæga Rómverja keisaradæmis eydíleggíngu. 4da og 5ur öld eptir Krists fædingu.

2.

2. Heima í Norðurløndum þar á móti var ástandið ecki farsælt.

Løndin vóru aðgreind í margar smástjórnir, sem flæktust í sífeldri styrjeld sín á milli. Innbyggjararnir vóru óſiðaðir, framferðið villt, trúarbrøgðin hjátrú; lærdómar að mestu ókunnir, rósamir næríngar útvegir fáir, og að miklu leiti óbrúkaðir; skipaferðir vóru snemma þeckjar, en vóru framar brúkaðar til sjóvíkíngskapar enn kaupferða.

Nockrir af Smá-kóngum reyndu stundum til að sameina fleiri smástjórnir, en allar þessar sameiníngar høfðu engann varanlegleika.

Hérum 250. Danur Mikilláti Kóngur í Skáni, hvar fólk það bjó, sem í fyrstu kolluðust Danskir, varð vegna ektaskapar við Olufu Kóngsdóttur í Sælandi, ásamt stjórnari Sælands og fleiri eya, og kalladi allt ríkið Danmørku epir sér og sínu

fólki-

fólki; en þetta ríki skiptist síðan aptur í ennur smærri.

Helgi, Kóngur í Sælandi 500.
og Skáni, inntók Jótland og Slesvík, sem þá hét Angeln (England forna), þegar það var, vegna Englanna burtflutníngs til Britanníu, komið í auðn.

Hrólfur Kraki sonur hans, fullkomnaði að inntaka Jótland og Angeln, og tók þar hjá að leggja undir sig England, en eptir hans dauða skiptist hans ríki aptur.

Ivar Víðfaðmi Kóngur í Skáni, inntók alla Danmørku og Sviþjóð, líka nockuð af Preussalandi og Vindlandi, þ. e. Pómmern og Meklenborg.

Hans eptirfylgendur, Haraldur Hilditønn, Sigurður Hríngur og Ragnar Loðbrók, héldu að sennu þeim innteknu løndum saman, og inntóku jafnvel fleiri, nefnil.: Nordymb-

raland, Vikina og alla Strend-
ina sunnan fjalls í Norvegi;
en — eptir Ragnars Lodbrók-
ar dauda, skiptust hans lend apt-
ur í milli varna hans.

4. Kristindómurinn
tók ad verda kunnugur nord-
urlanda innbyggjurum, en
gat ecki duglegann fram-
gáng fengid.

Kristin trúarbregd, svo mis-
jafnt sem þau vórn kénd á þeim
tídum, hefdu þó byrjad ad út-
rhma villu-sidum úr hinum sydri
lendum. Þau urdu nú einn-
inn nockrum kunnug hér á
nordurlendunum. Klack-Har-
aldur, Undir-kóngur á Jót-
826. landi lét skíra sig. Anscha-
rius, hinn fyrsti Kristnibodari,
sem kom til Danmerkur, vyrdt-
ist ad sennu ad ávinna nockud
med kénningum sinum, þó
varadi þad í heil 200 ár, ád-
ur enn allt landid játadist
undir Kristni.

## II.

**Frá þeirra mørgu smástjórna sameiníngu í Danmørku og Norvegi, undir Gormi hinum Gamla og Haraldi Hárfagra, til Kristniñar fullkomnu innfærslu á døgum Knúts hins Mikla í Danmørku, og Olafs hins Helga í Norvegi frá árinu 883, til 1036, hjerum 150. ár.**

1. Hinar mørgu ádur adskildu stjórnir søfnuduſt í eina í Danmørku af Gormi hinum Gamla, og í Norvegi af Haraldi Hárfagra, en þetta orsakadi nýar burtferdir úr løndunum, og luckusæla umbreytingu í innbyrdis ástandinu.

Gormur hinn Gamli, Kóngur í Sælandi, lagdi undir sig alla Danmørku; Haraldur Hárfagri undirþvíngadi Smá-kóngana í Norvegi, 31 ad tølu; medhjálpendur hans vóru: Guttormur módurbródir hans, og Jarlarnir Hákon og Røgnvaldur.

Eptir 800. Þeir óánægdu hefdu sig úr landi, og juku þá stórhópa, sem undir Nordmanna nafni um þann tíma, lengi áreittu Sudur-Evrópu, og loksins tóku sér bólfestu í Nordmandíinu í Fránkaríki, undir herstjórn nordmanns nockurs Gaungu-Hrólfs ad nafni; í Englandi, í Austur-Angeln og Nordymbralandi, í Islandi, hvar þeir vóru kalladir Austmenn, í Dúblin (Dyflinni) Limerik (Hlimreka) og Vaterford; í Skótlandi og þar til heyrandi eyum; frá Fránkaríki inntóku Nordmenn sídan Neapólis og Sikileyu. Nockrir af þeim misánægdu Norsku búsettu sig,
873. sömu orsaka vegna, á Islandi og Færeyum, sem þeir hefdu fundid á þeirra sjó-víkings-ferdum, og, Island vard fríland, hvar hin forna Nordurlanda skáldskapar-kunst og sagnfrædi lengi var í blóma.

En

En eptir þá tíd minkudu líka burtferdirnar, sem orsakast höfdu af innanlands styrjøld, næríngarskorti og máské eptirlaunngun til þægilegri adseturs-stada. Fólkid tók ad verda stødugra, akur-yrkjan og jafnvel gardyrkjan ad stundast; kunstir ad verda þecktar, sjóferdir ad brúkast til kauphøndlunar í stad víkingskaparins, og vegur ad greidast framar fyrirkristinndóminum, og þeirri tröppu af sidsemi, sem hann á þeim døgum færdi med sér.

2. Í Norvegi var ábatinn af, ad stjórnirnar vóru samanlagdar í eina, nær því mistur aptur, og Kristinndómur, med honum fylgjandi sidsemi, hafdi ad eins lángsamann framgáng.

Haraldur Hárfagri hafdi géfid sonum sínum landspart hverjum, þó svo, ad einn af þeim, Eiríkur Blódøx, skyldi vera Yfir-konúngur, og halda þá-

háſætid í ſamkomunum. Þetta uppvakti hinna brædranna øfund, og hinir norſku Jarlar, ſem áttu dætur Haralds, létu líka krøfur í ljóſi; Hvi uppriſu ſlocka-drættir, ſem orſakad hefdu ný ſkipti, nema Hákon
936. Adalſteinsfóſtri, hinn yngſti af Haralds ſonum, ſem uppalinn var hjá Adalſteini Engla Konúngi, og þeſsvegna fór varhluta í ſkiptunum, hefdi med því ad gjøra ſig elſkadann af landsfólkinu, og med hjálp Sigurdar Jarls, fyrſt verid hylltur af nockrum, og ſídan af øllum; hann framfylgdi fedur ſins góda undirlagi, gaf út enn fleiri løg, útbreiddi kaupferdirnar, gjørdi nytſamlegar tilreidſlur til landſins varnar, og jók þad med Jamtalandi og Helſingjalandi, med viturleik og án blóds úthellingar. Kriſtindóminn, ſem hann var uppalinn vid í Englandi, innfærdi hann vid hyrd ſína, en hjá almúganum tókſt honum þad ecki. Fyrſt

Fyrst Olafi Tryggvasyni heppnadist þad, ad gjøra hann almennann í Norvegi, og Olafi hinum Helga ad grundvalla hann med løgum; bádir høfdu brotid undir sig allt ríkid, en þeirs girnd til sjó-leidángra, sem hann hafdi vanist frá úngdómi og þessa óheppni, gjørdi ad landid hafdi eckért gagn af sigursældum þeirra. Hjerumb 1000.

3. Danmørk þar á móti, hóf sig strax eptir ad þar var ordid eitt ríki af fleirum, til merkilegs veldis.

Eptir dauda Gorms Gamla urdu margar styrjaldir, stundum vid hina Þýdsku Keisara, stundum vid adrar nábúa maktir, hvar í Danmørk vardi sig vel. 941.

Haraldur Blátønn Gormsson, setti til ad verja landamerkin móti hinu þýdska ríki, hann nafnkénda vígis-gard Danavirki, eptir rádum módur sinnar Þyri Danabótar; gaf

 út

út leg, efldi akuryrkjuna med ad uppheggva ſkóga og framfylgdi Kriſtinndóminum, ſem hann líka ſjálfur játadi.

991. Sveinn Tjúguſkeggur ſonur hans héldt, enn þótt luckan væri honum opt mótfallin, ſamt ollu ríkinu, vann nockud af Norvegi ſunnanfjalls, med ſjóarſídunni, og inntók mikid af Englandi.

1015. Knútur hinn Mikli Sveinsſon fullkomnadi ad inntaka England, og var tekinn til Kóngs, fyrſt í nockrum hluta Englands, og ſídan líka í því ſem eptir var. Þareptir inntók hann nockud af Skotlandi og af Pommern og lagdi undir ſig allann Norveg; hann bar mikla umſorgun fyrir Kriſtinndóminum, ſem ad ſonnu var mjög útbreiddur, en lítid ſtyrktur; hann lét byggja kirkjur, ſetja Biſkups-dóma og tilſkipa Kennendur; hann tilſetti ſtadfaſtann her, af útvoldum hreyſtimonnum,

um, sem leitudu til hyrdar hans; hann aftók marga villisídi, einkum þau hlugad til sidvanalegu einvíg, med þeim nafnfræga Vitherlags-rètti, sem fyrst var eginlega ætladur fyrir hyrdsmenn hans, en sídan var honum líka fylgt, sem reglu í ødrum húsum, af því hann var álitinn fyrir hin fullkomnustu løg á sinni tíd; hann vyrdti lærdómana og hina fáu, sem á þeim tíma ædu þá; hann hèldt sjóvíkingum frá landamerkjunum, hjálpadi hverjum til rèttar síns, sýndi trúarbrøgdunum heidur og ól enn fyrir þeirra áliti eptir þeirrar tídar hætti, med mørgum og stórum gjøfum.

## III.

Frá Kristinndómsins fullu innfærslu í Danmørku og Norveg til þeirra 3ja nordur-ríkja sameiníngar, frá 1036 til 1397, hjerum 300 ár.

1. Hinna sameinudu ríkja makt fèll strax aptur.

Knútur skipti sinum ríkjum milli sona sinna, en einginn þeirra hafdi fedúrsins störu eginlegleika. Sveinn hafdi fengid Norveg, en vard útslæmdur jafnvel fyrir Knúts dauda, af norskum Köngssyni, Magnúsi, sem kallast hinn Gódi, syni Olafs hins Helga. Haraldur Hérafótur fèck England, en dó litlu sídar, og
1036. Hörda-Knútur, sem ordinn var Köngur í Danmørku, sameinadi eptir dauda bródur síns bædi Danmørk og England, en eptir þessa dauda kaus England sèr sjálft Koúng, og vard sídan æfinlega ríki útaf fyrir
1042. sig. Danmørk og Norvegur urdu eptir gódviljugu samkomulagi milli Hörda-Knúts og Magnúsar hins Góda, sameinud undir þessum seinni, en þad varadi ad eins stuttann tíma.

2. Þareptir skiptust betri og verri tídir um í Danmørku, sidgædi fóru vaxandi, en stjórnar óstandid vestnadi vid auknngu Klerkdómsins maktar og uppruna Herramannanna a). Vindlendskir sjóvíkingar eydiløgdu landid; um sídir vóru þessir agadir og Danmerkur veldi steig til hins hæsta.

Sveinn Astridarson, Knúts hins Mikla systursonur, vard eptir Magnúsar Góda dauda Köngur yfir Danmørk einn saman; sjálfur lærdur, framadi hann lærdóma, kauphøndlun, akuryrkju, gód leg og sidi. 1060

Fimm af hans sonum ríktu eptir hann; Haraldur Hein, á hvørs døgum sønnun med trúverdugra manna eidi var innfærd í réttargáng. Knút- 1080



a) Edalmanna, sem í fyrstu vóru stór-bændur, sem áttu mikid jarda-góts, en fengu sídan allt vald yfir alþýdunni.

ur hinn Helgi var hinn fyrsti, sem kalladi Biskupana til rikis-daganna, setti þá inn í Rádid og tilskipadi tíundir til Klerkanna. Olafur Húngur, sem féck vidurnefni sitt, af þeirri á hans dœgum geisandi húngurs
1100. naud. Eirikur Gódi, b) undir hverium hin danska kirkja féck sitt egid Yfirhøfud, Erkibiskupinn af Lundi, Niel (Ni-
1129. colás), á hvørs tímum Páfans makt loksins kom því fram, ad hinir dønsku Klerkar urdu þvíngadir til ad lifa ógvæntir.

Pad góda, sem í tíd Sveins Astridarsonar og Eiriks Góda, hafdi verid til-leidar komid, tapadist brádlega; stundum vakti ósamþycki um Kóngs-kosníngina innbyrdis óróa; stundum gjørdu misjafnir edur athugalitlir Kóngar sig hatada edur forsmáda, og orsøkudu uppreistir af þeim Kóngasonum, sem úti-

b) Svo kallast hann í Søgunum.

skilokadir vóru frá stjórninni; lögin mistu krapt sinn; sjálfræđiđ fór vaxandi í ollum stéttum, einkum hjá Klerkunum; Erkibiskupinn í Lundi tók jafnvel til vopna móti Kónginum; hinir heidnu Vindar ræntu hvörvetna á strondunum, bædi af því sjóvíkingskapur var nærîngarháttur þeirra, og líka hins vegna, ad þeir meintu allt ofríki leyfilegt vid Kristna.

Valdemar hinn Mikli, sonur Slesvíkur Hertogans Knúts hins Helga, og eptir hann synir hans tveir, Knútur hinn Sjötti og Valdemar Sigursæli, og þeirra nafnfrægu Rádgjafar og hetjur Absalon og Asbjörn Snara, frelsudu ríkid frá undirgángi; undir Valdemari hinum Mikla vóru hinir vindversku sjóvíkíngar fyrst reknir frá strondunum, þar næst yfirfallnir í þeirra egin landi; þeirra] hofud adsetur Rygen, med] hinni 1160.

 festu

føstu borg Arkónu, var inntekid og lagt undir Danmørk, eptir þad afguda hofin vóru
1180. nidurbrotin. Á døgum Knúts hins Sjøtta neitadi Danmørk ad þeckja Keisarann fyrir Lénsherra, og þvíngadi Meklenborg og Pómmern, sem Keisarinn uppæsti og styrkti til ad verda léni undir sér, útbreiddi egsvo herradæmi sitt yfir allt Holsetuland og Ditmarsken.
1200. Á Valdemars Sigursæla fyrstu stjórnar-árum útbreiddust ríkisins takmørk med Austursjóinum í Eystlandi, Pommerellen, Preussalandi og nálægum løndum, hvar Reval og fleiri stadir þá vóru byggdir. Danmørk gat þarfyrir lokssins haldid flota, sem í vóru meir enn 1400 lángskip, skkaper af 160,000 manns og Kóngsins inntektir hlupu til 10 millióna ríkisdala, eptir peninga núverandi verdi. Dana Kóngur fèck þad nafn ad heita

Vinda Köngur, og var þarmed Hertogi í Slesvík, og Greifi í Helstein.

Hendlunin jóst, þar hafid var óhult. Lærdómarnir vóru framadir af Absalon Biskupi. Kirkjan fèck sín lög og ríkisstjórnin sín, lángtum greinilegri og skynsamari enn þau hefdu þángad til verid; sérílagi eru í áliti Valdemars hins Sigursæla jórsku-lög.

3. Norvegi fór fram í kaupþendlun, akur-yrkju og gódum sidum, en strax á eptir vóx Klerka maktin líka þar, og innanlands styrjöld eydilagdi landid í meir enn 100 ár; en þá hún um sídir vard nidurdempud, reistist landsins makt skjótlega aptur.

Eptir dauda Magnúsar hins Góda, hafdi Norvegur nockra stund vidvarandi góda stjórn.

Haraldur hinn Hardrádi átti nærstum sífeldlega stríd vid Danmörku. 1047.

 Ol-

1066. Olafur Kyrri gjördi landinu gagn med ad byggja kirkjur, gefa lög, frama fidlæti, kaupböndlun og akur-yrkju.

1093. Magnúsar Berfætta stríðs afrek gjördu landid nafnkunnugt medal útlendra c).

1103. Eysteinn I. upperfadi hina fridsömu næringar-vegi, akuryrkju og handverk.

1122. Sigurdur Jórsalafari sókti og flutti med sér þarflega þeckingu frá hinu helga landi.

En eptir þans dauda vard Norvegur í meir enn 100 ár sjónar-pláts fyrir innbyrdis styrjeld; sérhvör hinna mörgu Kónga-sona, hvört hann var skilgetinn, edur ecki, framkom med kröfu uppá ríkid allt, edur nockurn part af því. Biskuparnir og hinir ædstu embættismenn, urdu sjálfrádir; fridsamir næringar kvegir vöru bann-

c) Stærstu likindi eru til, ad Nordmanna fodurland hafi laungu ádur verid nafnkunnugt vídast í Nordur-álfunni.

bannadir, og útlendir ýfirfëllu strandirnar.

Þegar þannjun var nú á- 1186.
stadt, vard Sverrir, eptir mörg æfintýr og erfidismuni, Kóngur; hann hëldt vid Kóngdómsins heidri og stjórnarinnar tign med hugprýdi, viturleik og mælsku; hann var ad sönnu tvisvar hannfærdur af Páfanum, fyrir þad hann vildi halda Biskupanna ofríki gégnum veldugleika innan réttra takmarka, og átti vid ýdugleg upphlaup af maktarmönnum í landinu, af því hann hëldt vid lögin, verndadi hinna lægri stëtta rétt, og sorgadi fyrir þeirra vidréttingu; sjálfur hafdi hann á þeirri tíd sjaldgæfa lærdóms þekkingu, og framadi lærdómsins, einkum landsins sögu-frædi.

Sonur hans Hákon III. 1202.
fylgdi hans fótsporum, en deydi innanskamms, og innanlands styrjeldin endurnýadist, þángad til Hákon hinn Gamli kom 1217.
á trónum, sem aldúngis gjördi

enda á innbyrdis ófridnum, afték járnburd, sem sønnun fyrir því, ad Köngssynir væru skilgétnir; gaf lög til ad vernda lægri stéttirnar móti þeim merkjagri, og framfylgdi þeim án manngreinar álits; lét byggja erdd þéröd, og smída kirkjur; hafdi flota, sem í vóru 300 skip, og setti landþer sinn á reglulegann fót. Pad álit, sem hann naut af framandi Köngum, brúkadi hann til ad útbreida Norvegs kaupþendlun og gjøra landsins kaupskip óhult, og þá velunnan, sem hann nant hjá Páfanum, til ad létta vissum þýngslum á alþýdunni, sem Klerkarnir høfdu uppálagt henni, og til ad fá kirkjunnar banni lýst yfir uppreistarmønnum.

Island, sem hingad til hafdi verid fríland og nafnfrægt fyrir ad hafa æft lærdóma, einkum sagna-frædi og skáld-skapar ment, vard fyrir

hans vidleitni gódmótlega sameinad Norvegi, og Íslandi fylgdi Grænland.

Hans sonur Magnús Lagabætir, endurbætti Norvegs og Íslands løg, en eptirlét sinn rétt til sudureyanna Kónginum í Skotlandi. 1263.

Undir þeim fylgjandi Kóngum héldst vid regla og fridur í ríkinu. Loksins útdeydi hid forna 1387.
norska Kónga-kyn med Ólafi V.

4. Danmørk var á medan frá mesta veldi nidursockin í veseælasta ástand, og hafdi loksins øldúngis mist pad álit ad heita Ríki fyrir sig, pá Valdemar Atterdag kom løndunum saman aptur, og lagdi grundvøll til ríkisins hefdar eptirleidis.

Danmerkur makt og álit undir Valdemørunum og Knúti VI. féll ádur enn Valdemar Sigursæli dó. Relsar-

inn og Nábúa stjórnendur í Þýdskalandi tóku sig saman ad hindra framgáng hinna dønsku vopna hinumegin vid Eider og Elfuna. Nockud af løndunum med Austursjónum fèll frá, Holstein fèck sína egin Greifa og Ditmarskar, sem og Hamborg og Lúbeck urdu laus vid Danmørku og sjálfráda.

1241 til 1340. Kóngarnir Eiríkur Plógpeníngur, Abel, Kristóphor I, Eiríkur Glepplngur, Eiríkur Menved, Kristóphor II, vóru sumir lakir, sumir óforsjálir Stjórnarar. Kóngbornir menn af ættinni, sem vóru ordnir Kóngsins Lénsmenn, tregdudust ad uppfylla þeirra lénsskyldur: Biskuparnir, studdir af Páfans bannfæríngum, neitudu skatti og hlýdni: Klerkurinn Arnfastur, sem sídan vard Biskup í Arhúsum, gaf jafnvel eytur inn Kónginum Kristóphor I. í Sakramentinu; adrir

makt=

maktar-menn í landinu gjerdu hvad þeim sýndist, og kölludu jafnvel útlenda makt inn á móti Kónginum; þar fyrir forsómadist akur-yrkjan, landsherinn fæckadi, fólksfjöldinn minkadi, höndlunin komst í Hansa-stadanna hendur d), hvar af leiddi flotans hnignun; hinir holsteinsku Greifar og slesvíksku Hertogar sameinudu sig sín á milli, og vid Hansa-stadina, á móti Danmörku; vid dauda Kristophors III. vard Nordur-Jotland, Fjón og nockrar kringumliggjandi eyar í höndum Geerts Greifa í Holstein Rendsborg, sem hafdi fengid þessi lönd, fyrir ad vera Rikis-Forstödumadur móti Kristóphor Köngi II. Sæland, Falstur og mestallt Lágland hafdi Jóhann Greifi af Holstein

d) Þad vóru stadir í Þýdskalandi og vídar, sem höfdu gjört samband til kauphöndlunar útvega, og nutu lengi alls höndlunar ágóda hjer í Nordur-Evrópu.

stein Kiel, fyrir hjálp vid Kristóphor Kóng. Sudur-Jótland hafdi Valdemar Slesvíkur Hertogi, sem lika um stuttann tíma, med hjálp Greifans Geerts, kalladi sig Kóng. Pommern var af Keisaranum eptirlátinn syni hans Markgreifanum af Brandenborg; nockrir adrir stadir vóru léntir eda pantsettir fyrir lánada peninga, en sérhvørr Herra var nærstum Kóngur í sínum hluta lands.

1334. Kristóphor II. deydi, og eptirlét sér 2 syni, Ottó og Valdemar og ad eins litill partur af Láglandi og Eystlandi var þá í Kóngsins höndum.

Eptir þad Ottó, sem med leigdum her, hafdi viljad reyna ad koma undir sig riki födur síns, var yfirunninn, gêck hinn bródir hans, Valdemar, sem kalladur var Atterdag e), þá

e) Hann var svo kalladur af máltæki sínu atter dag ɔ: aptur kjemur dagur.

hann af hinum jótska Adli var kosinn til Kóngs, annann veg til ad ná ríkinn og koma því saman í eitt; tengdi sèr Hertogann í Slesvik, med því ad ekta systur hans; galldt med heimanfylgju hennar nockud af heim ríkis-skuldum, sem Jótland og Fjón stódu í panti fyrir hjá Greifunum í Holstein; med sparnadi á inntektum sínum safnadi hann sèr peníngum til ad innleysa smámsaman fleiri krónunnar eignir, efldi sig móti Greifunum í Holstein med tengdum vid Markgreifann af Brandenborg, nýtti sèr þá verandi óróa í Sviaríki, til ad fá Skáni, Halland og Bleking aptur, gipti adra dóttur sína Hertoganum af Meklenborg til ad efla sig á þá sídu, en adra Hákoni V. Kongi í Norvegi, og lagdi þarmed grundvöllinn til sameiníngar Danmerkur og Norvegs; efdi innlendska vid vopn og ól

enn fyrir réttarins framgángi án manngreinar álits.

5. Danmørk, Norvegur og Svíþjóð sameinuðust undir einum Stjórnara við hina svonefndu kalmørsku eining.

1387. Valdemars dóttir Margrét, átti með hinum norska Kóngi Hákoni V. son, Olaf, sem var kosinn til kóngdóms í Danmørku, eptir Valdemar, og eptir föður sinn erfði Norveg, en hann deyði mjög úngur: á hans æsku-árum hafði Margrét móðir hans staðið fyrir stjórninni, og var eptir sonarins dauða kosin í báðum ríkjunum. Hinn svenski Kóngur Albert hafði lengi stýrt fjandskapar-fullur árásir Danmørku; hún yfirvann og fángaði hann; eptir 7 ára fángelsi var hann laus látinn, og afsagði sér rétt til hins svenska tróns; allar þrjár ríkisins stéttir söfnuðust þareptir saman í

Kalmar og útvøldu Margrétu, og hennar systurdóttur-son Eirík af Pommern til hennar eptirkomara, og ákvádu fastlega, ad Danmørk, Norvegur og Svíaríki, æfinlega skyldu vera sameinud undir einum Kóngi, en hvør þeirra þó framvegis vera ríki fyrir sig, med sínum egin løgum og rétti; einn sameginlegur Kongur skyldi útveljast af fulltrúum allra þriggja ríkjanna; þessi sameining hefdi gjørt þau 3 Nordurlanda-ríki ad einhvørri hinni merkilegustu stjórn, ef innvortis ástandid hefdi svarad takmarka víddinni.

Jafnframt útdeydu Hertogarnir af Slesvík, sem þá féll til krónunnar; en var aptur eptirlátid sem léni holsteinskum Greifa.

## IV.

Frá hinni kalmørsku sameiningu þriggja nordurlanda ríkjanna,

janna, til endaloka þeirrar sømu, þ. e. frá árinu 1397 til 1523.] 126 ár.

1. En brádlega uppkom ósampycki ívid Sviarîki, sem dró sig úr sameiningunni, hvør lokſins vard med øllu ónýtt.

1412. Undir Eiríki af Pommern, hvørs ríkisſtjórn í ellu tilliti var ſlæm, gjørdu Svenſkir uppreiſt, og kuſu ſér Ríkisforſtødumann Engelbrekt og ſídan Karl Knutsſon.

1440. Pfaltz-greifi Kriſtóphor af Bayern, hvørn hinir Dønſku, þá þeir og afſettu Eirík, útvøldu í þeſſa ſtad, vard eptir mikla fyrirhøfn ogſvo medtekinn af Svenſkum.

Kriſtján I. Greifi af Oldenborg, ſem af D...um var

1448. útvalinn til Kóngs, vard vegna innanlands flockadrátta í Sviaríki, og eptir lángvaranlega ſtyrjøld hylltur yfir þad ríki, en eptir ſtuttann tíma hrakinn frá því aptur. Hans,

Hans, sýni hans, gëck eins. 1482.
Hans sonur Kristján II. 1513.
lagdi líka undir sig Svíþjód
med makt og med hjálp innan-
lands flockadrátta, og meinti
sig framvegis ad gëta gjort
þessa ad engu med því oldúng-
is ad undirkúga Adalinn. Þess-
vegna notadi hann sër af Páf- 1523.
ans banni, sem Svíaríki, var
sett í, til ad láta mikinn fjølda
af Adlinum, sem og Biskupa
og Borgara dæma til dauda og
líflátá; en svenskur Edalmad-
ur nockurr, Gústav Wasa,
gëck í fylkingarbroddi Dala-
karla á móti honum og rak
hina Donsku frá Svíaríki,
sem sídan þá tíd hefir jafnan
haft egin Kónúnga, og þann-
in leid hin kalmarska einíng
undir lok.

2. Á medan var landsins
innvortis ástand aumt.

Strídsmakt og flota fór
hnignandi, og var ecki endur-
bætt; hendlunin var í Hansa-

stadanna bændum, og þarhjá hættuleg vegna sjóvíkíngskapar; lærdómar og úngdómsins upp-
1478. lýsíng var forsómad. Ad sönnu tilsetti Kristján I. Universi-
tet edur háskóla í Kaup-
1493. mannahöfn, og Bókþryckjara-kunstin var á dögum Hans Kóngs innfærd í Danmörku, en þó vard ecki mikid afrekad til sannrar upplýsíngar, jafnvel þá mátti þad lítid heita. Ríkid var veikt, vantadi peninga og var í skuldum. Kristjáns II. innanlands stjórn var ad vísu grundvöllud á réttari stjórnar-kunst, en hans óforsjála og grimma framferdi gjördi skjótt ad engu hennar verkanir og hann var rekinn af tróninum í öllum þremur ríkjunum; Þó byrjadi undir hans stjórn Lúthers lærdómur ad verda þecktur þar í ríkinu.

3. Holstein, Stórmarn og Ditmarsken urdu sameinud Danmörk, en

en sídan var þeim og Sles-
vík skipt, og Kóngarnir
fengu ecki umráð yfir Dit-
marsken.

Med Adólfi VIII. Her-
toga í Slesvík og Greifa í
Holstein hafdi þad ríkjandi
Schaumborgar hús útdáid. 1459.
Kristján I. var ad sonnu sá
nærsti erfíngi til þessara landa,
en lét þó kjósa sig af stéttun-
um í hvorutveggja stad, og feck
Keisarann til ad hefja Hol-
stein, Stórmarn og Dit-
marsken til Hertogadæma, þar-
med útvegadi hann sér nockurs-
konar rétt til hins sídarsta, sem
þá lángann tíma hafdi haft
egin stjórn sína, en þad her-
togadæmi vildi ecki lúta hon- 1490.
um. Hans Kóngur vildi kúga 1500.
þad med valdi, en vard eld-
úngis yfirunninn. Slesvík og
Holstein þar á móti urdu skipt
milli Kóngsins, og Fridriks
brródur hans.

## V.

Frá hinnar kalmørsku einíngar endalokum til einvalds-stjórnarinnar innfærslu; frá árinu 1523 til 1660; 137 ár.

### 1. Ymislegar tilraunir til ad setja Kristján Kóng Annann aptur á tróninn, urdu loksins ad engu.

1523. Fridrik I. var útvalinn í Kristjáns II. stad, en hlaut med makt ad inntaka nockud af ríkinu, einkanlega Kaupmannahøfn og Málmey, sem vóru Kristjáni II. trúar; þessi leitadist vid ad koma undir sig Norvegi, en var þar á móti gefnu leidi-bréfi edur lofordi um óhulta ferd fánginn og settur í hald, uns hann eptir
1532. 26 ár lidin, dó í fángelsi.

Eptir dauda Fridriks I. var ad seunu sonur hans Krist-
1533. ján III. kosinn til Kóngs af Adlinum, en borgara-styrjøld uppkom, þá adrar stéttir ecki sam-

samsinntu þessu vali, og Lybeckar hjálpudu almúganum, sem óskadi ad setja þann fángna Kóng Kristján Annann aptur á tróninn. Loksins fèck Kristján III. yfirhønd, var medtekinn af øllum stèttum, og sættist sídan vid útlendska rikjandi Herra, sem tekid høfdu ad sèr mál hins fángna Kóngs. 1536.

2. Lúthers kenning vard vidtekin, sem lands trúarbrøgd.

Fridrik I. unnti henni og innfærdi í hertogadæmin, leyfdi líka ad hún opinberlega væri kennd í kóngs-ríkjunum; en jafnskjótt sem Kristján III. var kominn ad ríki, lèt hann á einum degi handtaka alla kathólska Biskupa, og þareptir samsinntu stèttirnar allarsaman á ríkisdegií Kaupmannahøfn, 1536.
ad hin lúterska kenning skyldi leyfast, sem opinberleg lands trúarbrøgd hèr í ríkjunum. Seinna innleiddist

trúarbragda umbreytingin í
1551. Ísland, hvar kathólskir Biskupar settu sig med makt á móti henni.

3. Landsins velsæla ástand tók nú nockud ad batna.

Fyrir þad lidsinni, sem Lybeckar hefdu sýndt Fridrik I. móti Kristjáns II. áhángendum í ríkinu, eptirlét hann þeim Borgundarhólm í 50 ár, og vid hans dauda var landid í stórum skuldum, flotinn og landmaktin, líka ogsvo akuryrkjan í velsælasta ástandi. Eptir þad Kristján III. hafdi ákomid innanlands kyrd, tók nockur velsldan ad útbreidast, og einkanlega upplýsing og lærdómar ad framast, og Hansa-stadanna allt ofmikla rétti og kaupþendlun ad setjast takmörk.

4. Hertogadæmin urdu sameinud krónunni, en skiptust strax á eptir.

Þá Fridrik I. ásamt med hertoga-tigninni vard Kóngur, féll

fèll gjørvöll Slesvík og Holstein til hans ӕldúngis, en Kristján III. skipti þeim med brædrum sínum tveimur Hans og Adólfi; hinn tók sèr adsetur í Hadersleb; þessi vard Forfadir hins Holstein-Gottorpska Hertoga ættboga. 1544.

5. Þad veika innanlands ástand, sýndi sig í sjø ára strídinu vid Svíaríki, en þá fjárhyrdslu efnin endurbættust, fèck styrjøldin heppinn enda; landsins skuldir vóru sídan goldnar, og kunstum og handverkum vidhjálpad.

Fridrik Köngur II. vard 1559. enn framar takmarkadur ad valdi sínu af Ríkisrádinu, enn formenn hans, og Adallinn, sem hafdi valdid í høndunum, dró allt til sín. Styrjøld hófst 1563. vid Eirík XIV, Kóng í Svíþjód, sem varadi í 7 ár; tilefni þar til var, ad nockruleiti brúkun þriggja króna, í ríkjanna

janna skjaldar-merki, ad nockru leiti ad Sviar høfdu inntekid Vik, sem Fridrik Kóngur II. hafdi fengid Magnúsi bródur sínum, og ad nockru leiti sjóvíking-skapur, sem Svenskir høfdu í frammi vid kaupfør Dana í Austur-sjónum. Stridinu var framfylgt med grymd á bádar sídur, og med óhamingju fyrir Danmørku, hartil Pétur Oxe vard forstødumadur fjárhyrdslu efnanna í Danmørku; sú betri umsýslan, sem hann hafdi um ríkisins peninga ástand, gjørdi hinum danska Lids-foríngja Daniel Rantzau had møgulegt, ad framfylgja strídinu svo alvarlega, ad Danmørku virdíngarfullur fridur
1570. loksins var áqvedinn í Stettin, vid Kónginn Jóhann af Svíaríki.

Eptir fridinn sýndi sig ábatinn af Péturs Oxes skynsamlegu stjórn á ríkis inntektunum mjeg þeckjanlega, svo ad Borg-

Borgundarhólmur vard innleystur aptur frá Lybskum, og landid vid dauda Fridriks II, ei ad eins vár skuldalaust, heldur hafdi líka álitlega penínga umfram, jafnvel þótt ósmáar bygglngar og kostnadur til uppfrædíngar og lærdómanna (svosem stjörnu-frædinnar) eblíngar, væri þar ad auki. 1588.

Frá Nidurløndunum var tekid á móti flúnum kunsta- og handverks-mennum; pappír og gler var nú farid ad tilbúa í Danmørku.

6. Ditmarsken var med vopnum unnin til hertogadæmanna, og vonin um Oldenborg og Delmenhorst, vard uppfyllt.

Frá døgum Hans Kóngs, høfdu Ditmarskar ad nyu lifad sjálfrádir, og fyrir sig. Kóngsins fødurbródir, Hertoginn Adólf (sjá § 4), vildi undirþvínga þá med makt, og kom upp á þad vid Kónginn Fridrik II.

og Hertogann Hans, sem legdist á eitt med honum þarum. Med ofureblis strídsmakt yfirféllu þeir Ditmarsken, og inn-
1559. tóku landid á mánadar tíma, og skiptu því milli sín; þó héldt þad sínum forna lands-rétti.

Þegar Hertoginn Hans í
1581. Haderslev, deydi erfingjalaus, var hans lendum skipt á milli Kóngsins og Adólfs Hertoga af Gottorp.

Oldenborg og Delmenhorst, kónga-kynsins arfalønd, vóru af Kristjáni I. þá hann vard Kóngur, eptirlátin Gerhardi bródur hans; nú nádi Fridrik Kóngur II. og fødurbrædur hans, þeim rétti aptur, sem Kristján Kóngur I hafdi
1570. sleppt, ad erfa þessi lønd. Keisarinn Maximilianus II gaf þeim þessa fullvissu, og þeirra rekfemda vegna féllu þessi greifadæmi sídarmeir til Dana-Kóngs.

7. Undir Kristjáni Kóngi *IV*. ebldist landsins vel-

velgengni og álit, þángad til
tvö óhamingjusöm stríd, komu
því á fallanda fót aptur.

Á æsku-árum Kristjáns IV. 1588.
stjórnudu fjögur Ríkisrád, og þá
hann sjálfur tók vid ríkisstjórn-
inni, héldst sú góda umsjón med fé-
hyrdslu ástandinu vid, og margir
nytsamir hlutir vóru settir í verk, 1613.
nytsamar útréttingar vóru fyrir-
teknar, svosem póstferdir og fleira,
flotanum var haldid í ágætu
standi, og Gamli-Hólmur í
Kaupmannahöfn brúkadur þar
til. Landmaktin var endurbætt,
einkanlega med landher, hvörjum
Kóngurinn gaf kaup; betur var
fyrirsjed Vopna-húsinum enn
ádur, og ymsir kastalar svo-
sem: Glückstadt, Kristjanópel,
Kristjansstadur og Kristjans-
prís bygdir; höndlan med lands-
ins vorur og egin skip útvídk-
adist, svosem: vid Austur-indía
höndlunarinnar byrjun. Lær-
dómarnir vóru virdtir og efldir.

1611. Samt var á medan, haldid ħriggja ára strid vid svensku Kóngana: Karl IX. og Gústaf Adólf, sem endadist med þeim
1613. sjørødska fridi, í hverjum Danmørk fêck stridskostnadinn goldinn med peníngum.
1625. En þá Kóngurinn í 30 ára styrjøldinni tók ad sêr málefni próteskantisku stjórnaranna í Þýdskalandi, og sambandsmenn hans, styrktu hann ecki nógsamlega, vard hann ei ad eins ósigursæll í stridinu vid Keisarann, og hlaut ad sættast í Lybeck, heldur fór frá þeim tíma rikisins vel-
1629. megan hnignandi.

Frá þeirri tíd vardi Kristján Kóngur IV. øllu ómaki til ad semja frid á milli maktanna, sem strídid áttu í Þýdskalandi; en Svíaríki, sem hafdi ad sêr tekid Próteskantanna málefni í Þýdskalandi móti Keisaranum, óskadi ecki Danmerkur milligaungu í fridnum, og ýmsir ágreiníngar høfdu þar fyrir utan

an lengi verid milli Danmerk-ur og Sviaríkis. Svenski Hershøfdinginn Torstensón, fell óvørum inn í Holstein, og á stuttum tíma inntók fastalandid, 1643.
þar varnirnar vóru veikar, og þad lidsinni, sem Keisarinn sendi Danmørku, kom engu til leidar. Flotinn þar á móti frelsadi ey-arnar, og á hinum norsku landa-merkjum, og í Skáni var vørn-in líka betri; Frílandid Holland fyllti Svenskra flock; loksins kom Fránkaríki fridi á í Brøm- 1645.
sebroe, í hvørjum Danmørk hlaut ad afsala sér til Sviaríkis: Jamtaland, Herjadal, Gul-land og Øsel, og umrád yfir Hallandi í 30 ár.

Eptir fridinn vard eckert af-rekad til landsins sønnu vidrétt-íngar, þar Adallinn, sem nærstum hafdi stjórnina í høndunum, setti sig á móti sérhvørjum álégum, og Kóngsins ell. cg mektugu tengdasynir, svosem: Korsitz Uhlfelt, sem vóru hefud yfir

Adlinum, og foríngjar fyrir hans tilraunum, ad vidhalda fullkomi inni Rikismanna stjórn, hindrudu allt, sem gjörast kunni til ad veikja makt Adalsins.

8. Af þessum ríkjanna mikla vanmætti, sem vidhéldst undir Fridrik Kóngi III. notadi sér svenski Kóngurinn Karl Gústav, þá Danmørk yfirféll hann, og ad eins med því ad sleppa tøluverdum løndum, gat Kóngurinn keypt sér frid, vid hvørn líka Hertogarnir af Holstein urdu lausir vid Danmørku. En þessi ríkisins mikla óhamíngja, orsakadi fullkomna umbreytíngu í Stjórnar-forminu.

Handfestíng Fridriks III. skérdti enn meir Kóngsins stjórnar-ráð, enn hans formanna; og Adallinn vildi æ vera frí fyrir álegum til ríkisskuldanna gjalds og sjó- og landsmaktarinnar endurbótar. Landsins mikli vanmátt-

máttur hëldst þvî vid, flotinn var î løsun âstandi, strídsherinn varla til, og rîkisskuldirnar hlupu til 6 millióna rîkisdala.

Ei ad sîdur sagdi Kóngurinn og Rîkisrádid hinum svenska Kóngi Karli Gústav, sem á 1657. þeirri tíd átti î mikilli styrjøld î Pólinalandi, strîd á hendur, til ad vinna þau mistu lønd aptur frá Svíum; en Karl inntók á svipstundu alla Danmørk, ad Kaupmannahøfn frátekinni, og danska Rîkisrádid neyddist til ad semja frid î Roiskëldu, vid 1658. hvern Skáni, Halland, Blekîng og Bahús vóru afhendt Svîarîki; en ádur enn fridarskilmálarnir gátu ordid uppfylltir, endurnýadi Karl Gústav strîdid, og lagdist um Kaupmannahøfn, hvern stad borgararnir vørdu med mikilli hreysti. A medan kom hollendskur floti, og keisaralegt, brandenborgiskt og pólskt herlid Danmørku til hjálpar, og Karl Gústav 1660.

deydi; þar eptir var gjørdur fridur vid Kaupmannahøfn, med sømu kostum, sem sá, er áqvedinn var í Roiskéldu.

Kóngurinn samankalladi strax
1660. eptir fridinn stéttirnar til ríkisdags í Kaupmannahøfn, til ad rádgast um medøl til ad vidhjálpa ríkisins vesæla ástandi; strax vid fyrstu rádfæríngar um nýar áløgur, braust út beiskasta óeining milli Adals og hinna stéttanna. Þessa óeiningu nýtti sér enn annar flockur og klerkdómsins formadur, Biskup Svane, og Høfudsmadurinn fyrir Kaupmannahafnar borgurum, Borgmeistari Nanson, ásamt nockrum af Adlinum sjálfum, komu þvi til leidar, ad þær oedla stéttir budu fyrst Kónginum erfdastjórn, og þvi nærst ad ónýta Kóngsins handfestíngu; hérvid mistu þeir oedla einkis í, þvi þeir høfdu ecki ått hlut í Kóngskosníngunni, og í hinni sídurstu handfestíngu var eld-

úngis ecki sjed fyrir þeirra gagni. Adallinn samþyckti lokſins þid sama tilbod, og samníngur var gjørdur og útgéfinn, hvar' í Erfda-einvalds-stjórnin var eptirlátin Kónginum og hans afkomendum, og ríkisdeginum þarmed uppsagt.

## VI.

Frá Einvaldsstjórnarinnar innfærslu til vorra daga.

1. Oedla stéttanna kostabetrun kom fram í høndlunarinnar upplifgun, og frømun gódrar reglu; og løndin vóru aukin med kaupum og arfi.

Fjárþyrdslurnar ábøtuduſt, þá krónunnar eignir, sem hingad til høfdu verid léntar Adlinum fyrir mjøg lítid afgjald, smám saman umbreyttust í kóngleg Ømt; allar stéttir ábøtuduſt vid skattanna meiri jøfnud, enn fyrr hafdi fundist; í hinu nýa stjórnar-rádi, sem kom í

stad hins fyrra ríkisráds, vóru settir jafn-margir óedla a) sem edla; stridsherinn var settur á stødugri fót, enn ádur, og stødugur her, af 24,000 manns, tilskipadur; flotinn var endurbættur, og Galeida-floti tilbúinn í Bjørgvin; høndlunin vard upplífgud vid meira Frelsi, og útvídkud vid uppbyrjan hinnar Svine:sku- og Vestur-indisku høndlunar. Altona var byggd, og fèck lidsinni og fríheit, til ad nidurkefja Hamborgar høndlunarinnar skadsemi fyrir ríkin.

Sønderborg, Nordborg og nockud af eynni Ærey, keypti Fridrik Kóngur III. af Hertogunum, sem vóru komnir í skuldir. Pá Hertoginn Anthon Gynter, hinn seinasti Greifi af Oldenborg og Delmenhorst, var daudur, tilféllu þessi lønd Kónginum, og Hertoganum af Gottorp. 2,

a) Eg leyfi mjer þetta ord í sinni rjettu meiningu, til mismunar frá Adlinum.

2. Undir stjórn Kristjáns V. vóru þau enn þá gyldandi løg og ríkis innréttingar gjørdar, og jafnvel þó 5 ára stríd uppáfélli, nockud af landsins skuldum goldid. 1670-1699

Til nýrrar løgbókar, hentugrar því umbreytta stjórnar ástandi, var þegar grundvøllur lagdur á døgum Fridriks III; undir Kristjáni V. vóru þau enn þá gyldandi dønsku og norsku løg útgéfin. 1683.
Ný, hærri trappa af adli, Greifar og Barónar og Riddarastéttir vóru innleiddar, í líkingu annara Nordurálfunnar Kónga-hofa, máské og til ad fá ósaknæmt medal til ad metta ærugirnd Adalsins. 1687.
Svósem medal stétt í milli adals og ódla var Rang uppfundinn, sem persónulegur adall. Landid var uppmælt, og ný Jardabók, eptir hvørri allt var reiknad, eins í øllum ríkisins pertum uppá hart korn,

á-

ásamt almennum mælir og vigt innleidt.

Mesti hlutí þessara adgjörda var ad þacka Greifanum Pétri Griffenfeldt, hvörjum þó var kollsteypt af hyrdmanna flocka-drætti, og hann dæmdur til æfinnlegs fángelsis, fyrir sakargiftir, sem aldrei eru nógsamlega sannadar.

Vid Svíaríki uppkom strid, er þad vegna sambands vid Fránkaríki, yfirfëll Brandenborg, sem var sáttmálsbundin vid Danmörku; strídinu var framhaldid hamíngjusamlega til sjóar, en ad mestuleiti med óheppni á landi; loksins var Kóngurinn yfirgéfinn af sínum félegum, og Lodvík XIV. Kóngur í Fránkaríki, lët herlid sitt gánga inn í Oldenborgar land, hvörs vegna Kristján Kóngur

1679. V. hlaut ad undirgángast frid í Fontainebleau og Lundi, og sleppa öllu því, sem hann hafdi unnid í strídinu.

Af

Af þeim ósmáu skuldum, sem áféllu vid þetta stríd, vard mikill partur goldinn, vegna ríkis fjárhyrdslanna gódu stjórnar af Karli Sigfrid Pleß.

3. Þó stríd væri, pest og fleiri ókjör, urdu þó ríkis fjárhyrdslurnar settar á ágætann fót undir Kóngs Friðriks 1700. til
IV. stjórn. Hertogarnir í 1730.
Holstein, mistu þeirra hluta í Slesvík; ánaudar-réttur yfir bændum b) var aftekinn, og landsherinn settur í gott ástand.

Hertoginn af Gottorp var í Roiskéldufridnum, frikénndur frá ad játa Danmerkur lénsvald yfir Slesvík, þetta og á fur Oldenborgar og Delmenhorstar, hafdi sídan gefid efni til þrætu milli Kónganna og Hertogans. Kóngurinn í Sviaríki og fleiri ríkjandi Herrar, tóku Her-

b) Bændur vóru bundnir vid jardir sínar af edalmönnum, eins og ánaudugir, mann eptir mann, þetta kalladist: Vorned edur ánaudar-rjettur.

Hertogans málahlut. Þannin brautst út strax vid stjórnar byrjun Fridriks IV. stríd, sem þó, þar Danmerkur sambandsmenn, Zarinn af Moskow og Kjørfurstinn af Saxlandi, ecki komu nógu tímanlega til lids,
1700. vard endad vid fridinn í Travendal, hvarvid Hertoginn fèck sinn forna rètt aptur, og strídskostnadinn borgadann.
1709. Sídan átti Danmørk þátt í strídinu vid Zarinn Pètur I. af Rúslandi, og Karl XII. Svía-Kóng. Hertoginn af Gottorp lidsinnti Svíaríki. Á sjó var stridid haldid med meiri heppni, enn á landi, en
1720. eptir dauda Karls XII. var fridurinn gjørdur í Fredensborg, í hvørjum þeir Svensku afsøgdu sèr toll-rèttinn í Sundinu, og lofudu ad hjálpa ecki Hertoganum af Gottorp til ad koma undir sig Slesvík aptur.

Þó þetta stríd væri, líka 1711.
vatsflód, pest og Kaupmañna-
hafnar eldsbruni, setti Fridrik 1728.
Kóngur IV. fjárhyrdslu-efni
sín samt í svo gott ástand, ad
hann lét ríkid eptir sig skulda-
laust, og 3 milliónir fyrirligg-
jandi í peníngum.

Jarda ánaudar-rétturinn
var aftekinn, menn tilsettir þar
á mót landherlidid, sem komst
í ágætt ástand. Fyrir almenn-
íngs upplýsíngu var alin önn,
med bænda-skólanna stiptun á
krónunnar eignum. Grænland
var aptur fundid, og höndl-
unin þar byrjud.

4. Flotans endurbót og 1730. til
höndlunarinnar útvídkan, var 1746.
hid hellsta merkilega undir
ríkisstjórn Kristjáns *VI.*

Fridriks IV. landherlid var
aftekid, og bændurnir aptur
bundnir vid þeirra fædíngar-
jardir; fjárhyrdslu ástandid, vesn-
nadi líka, vegna kostnadarsamra
bygginga og íllrar fyrirsjónar.
En

Enn flotinn var settur í gott ástand, betri skipsbyggingar máti innfærdur, og Dokkan c) tilbúin.

Hin chinesiska kauphendlun komst á fót, og hin Vesturindiska jókst vid útvegun eyarinnar St. Croix.

1746. til 1766. 5. Undir Kónginum Fridrik V. komust fjárhyrdslurnar í enn þá meiri óreglu, en kunstir og lærdómar vóru efldir, og løndin aukin med hertogadæminu Pløn, og nockru af Ærey.

Vegna vísrar sparsemi, vóru landsins skuldir ad mestuleiti allar goldnar, á fyrstu ríkisstjórnar árum Fridriks Kóngs V; en þá kom Zarinum í Rúss-

c) Dokkan er þýtmæt bygging nidri í sjónum, inn í hvorja her- og ødrum skipum má fleyta, en þá lokud er aptur alla vega, og sjórinn úr hennar rúmi útpumpadur, standa skipin þar inni á þurru til adgjørda á stockum, á hvorjum ný eru og bygd, og þeim sídan utfleitt.

í Rúslandi Pétri III. sem var fæddur Hertogi af Gottorp, til hugar, ad endurnýa síns húss fornu krøfu til Slesvíkur, og á medan 7 ára strídid ræddi í Þýdskalandi, hlaut Danmørk ad útbúa sig til lands og vatns. Þessi útbúníngur, og minni sparsemi á seinustu stjórnar-tímum Fridriks V. orsakadi ad landid, vid hans dauda, var í 26 milliona ríkisdala skuldum.

En Kunst-academíid var stiptad, og margur kostnadur gjørdur bókmentanna vegna.

Þann hluta Æreyar, sem Hertoginn af Glücksborg átti, keypti Kóngurinn sér til handa, og eptir samníngi milli hans og hins sídarsta Hertoga af Pløn, Fridriks Karls, tók hann eptir Hertogans dauda, hans lønd til umráda, á móti því ad svara út Hertogans skuldum, og uppheldis peníngum til hans eptirlátna húss.

6.

6. Rikisstjórn Kóngsins **Kristjáns** *VII.* mun af eptirkomendunum verda køllud merkilegt tímabil í hinnar **dønsku** þjódar søgum, og þad í mørgu tilliti.

1777. Uppsprettan til margfaldrar þrætu vid holsteinsku Hertogana, vard tilbyrgd med umskiptunum á Hertoganna hluta í Holstein, vid Kónga-hússins erfda-lønd, **Oldenborg** og Delmenhorst.

Prent-frelsid hefir gèfid efni til almennari upplýsingar, og frjálsari þenkingarháttar d).

Bændastandid og þar med akur-yrkjan sjálf, hefir ábatast ómælanlega mikid vid aftekubandsins vid fædíngar-lódina, og med bóndans frítekníngu frá jardaeigendanna ótakmørkudu medferd, og med qvada nidurskipun, m. m.

Fjár-

d) Þad er nú sídan merkilega nidurskamtad med Tilskip. af 27da Sept. 1799.

Fiárhyrdslunum er á þeim seinustu árum þannig stiórnad, ad markverdur hluti landsins skulda er goldinn, og pappírs-peninganna tala álitlega minkud.

Hondlanin er leyst frá morgum bondum, einkanlega var kornhondlunin giørd frí, jafnvel þó hún vegna kríngumstædanna í Evrópu, væri nockud takmørkud aptur.

Landherlidid er sett á betri fót enn ádur, og er ad mestu af landsins bornum.

Sjólidid er og álitlega endurbætt, og loksins virdtist 1776. innfæddra rètturinn e), fyrir nockrum tíma ad hafa verkad meiri egin-dugnadar tilfinn-íngu þjódarinnar, og margfaldar almenníngi nytsamar innrèttíngar eru fyrirteknar af

e) Sá rjettur, sem þeir í Rikjunum fæddu ad løgum njóta, til embætta og annars frama, meir enn útlendir.

af undirsátunum, án stjórnarinnar medverkunar.

Fyrir vísdóm þess nú burtu dána ógleymanlega Rikis Stjórnarherra A. P. Bernstorffs, hefir Danmörk haldid fridi Öldina út, medan mesti hluti Nordur-álfunnar hefir andvarpad undir stridsins ókjörum.





## Dana Kóngar í Hleidru a).

| | Fyrir Krists fæd. |
|---|---|
| Skjøldur hóf ad ríkja | 30 árum. |
| Fridleifur *I.* - - | 15. |
| Frid-Fródi - - | 8. |
| | Ept. Kr. f. |
| Fridleifur *II.* (al. Herleifur) | 55. |
| Fródi *II.* - - | 96. |
| Vidlegur - | 134. |
| Vermundur - | 150. |
| Ubbi - - | 210. |
| Olafur *I.* - - | 240. |
| Danur Mikilláti - | 270. |
| Fródi *III.* - | 300. |
| Hálfdán *I.* og Fridleifur *III.* | 370. |
| Ali (ríkti líka í Svíþjód) b) | 424. |

G Fródi

a) Svo hjet stadurinn fyrrum, og þad danska nafn er þar af dregid; annars er þessi Kónunga-rød ecki fullviss, síst uppá áratalid fram til Gorms Gamla.

b) Þessir og þeir eptirfylgjandi allt til Gorms Gamla, vóru margir samtídis.

| | Eptir Kr. f. |
|---|---|
| Fródi *IV.* - - | 436árum. |
| Hálfdán *II.* - | 450. |
| Ingjaldur - | 466. |
| Fródi *V.* hin Frækni - | 468. |
| Hróar - - | 475. |
| Helgi *I.* - - | 506. |
| Hálfdán *III.* - - | 512. |
| Fródi *VI.* - - | 516. |
| Hrólfur Kraki - - | 522. |
| Fridleifur *IV.* - | 552. |
| Hrærekur *I.* - - | 555. |
| Fródi *VII.* - - | 562. |
| Hálfdán *IV.* - | 600. |
| Hrærekur *II.* - | 624. |
| Ivar Vídfadmi - | 660. |
| Haraldur Hilditønn - | 670. |
| Sigurdur Hríngur - | 735. |
| Ragnar Lodbrók - | 750. |
| Sigurdur Ormur í auga | 794. |
| Gódfredur - | 803. |
| Hemingur - | 810. |
| Sigurdur (Sigvardur) | 811. |
| Horda=Knútur - | 812. |
| Eiríkur *I.* - | 851. |
| Gormur Ríki - | 854. |
| Olafur - - | 859. |
| Ennignúpur - | 862. |

Sig=

| | Eptir Kr. f. |
|---|---|
| Sigvardur - | 862árum. |
| Lodni-Knútur- - | 872. |
| Kóngar yfir allri Danmørku til hinnar kalmarsku sameiníngar. | |
| Gormur hinn Gamli c) | 883. |
| Haraldur Blátønn - | 941. |
| Sveinn Tjúguskeggur | 991. |
| Knútur Mikli (hinn Riki) | 1014. |
| Hørda-Knútur - | 1036. |
| Magnús Gódi - | 1042. |
| Sveinn Astridarson - | 1047. |
| Haraldur Hein - | 1074. |
| Knútur Helgi - | 1080. |
| Olafur Húngur - | 1086. |
| Eirikur Gódi - | 1095. |
| Niels (Nicolás) - | 1103. |
| Eirikur Eymuni - | 1134. |
| Eirikur Lamb - | 1137. |
| Knútur *V.* Sveinn og Valdemar *I.* Mikli - | 1147. |
| Valdemar *I.* Mikli einnsaman | 1157. |
| Knútur *VI.* - | 1182. |
| Valdemar *II.* Sigursæli | 1202. |



c) Hann var vist árid 870 ordinn Konúngur, ef ecki einvaldur yfir Danmørku.

| | Eptir Kr. f. |
|---|---|
| Eirikur Plógpeníngur - | 1241 árum. |
| Abel - - | 1250. |
| Kristófor *I.* - | 1252. |
| Eirikur Glepplngur | 1259. |
| Eirikur Menved - | 1286. |
| Kristófor *II.* - | 1319. |
| —Milli riki - | 1334. |
| Valdemar Atterdag | 1340. |
| Kóngar yfir øllum Norvegi allt til sameiníngarinnar vid Danmørku: | |
| Haraldur Hárfagri hóf ad rikja - | Eptir Kr. f. 863árum. |
| Eirikur Blódøxi - | 931. |
| Hákon Adalsteins-fóstri d) | 936. |
| Haraldur Gráfeldur og brædur hans - | 950. |
| Hákon Illi e) - | 962. |
| Olafur Tryggvason - | 995. |
| Eirikur og Sveinn, Hákonar Illa synir, Sveinn | |

Tjúgu-

d) Hans stjórnar tíd øll var frá 936 til 962.

e) Hann var ad eins Jarl ad nafni, en hans stjórn yfir miklu af landinu byrjast sinna enn hjer flendur.

| | Eptir Kr. f. |
|---|---|
| Tjúguskéggur Dana-og Olafur Skautkonúngur Svía-Konúngur | 1000árum. |
| Olafur hinn Helgi - | 1015. |
| Sveinn sonur Knúts Ríka Dana Kóngs - | 1030. |
| Magnús *I.* Gódi - | 1036. |
| Haraldur Hardrádi - | 1047. |
| Olafur Kyrri og Magnús *II.* - | 1066. |
| Olafur Kyrri einnsaman | 1069. |
| Magnús Berbeinn - | 1093. |
| Olafur, Eisteinn og Sigurdur Jórsalafari | 1103. |
| Eisteinn og Sigurdur Jórsalafari - | 1116. |
| Sigurdur Jórsalafari einnsaman - - | 1122. |
| Magnús Blindi og Haraldur Gilli-kristur | 1130. |
| Haraldur Gilli-kristur einn - | 1134. |
| Sigurdur *II.* Eisteinn *II* og Ingi *I.* - | 1136. |
| Eisteinn *II.* og Ingi *I.* | 1155. |
| Ingi *I.* einn - - | 1157. |
| Hákon Herdabreidur - | 1161. |

| | Eptir Kr. f. |
|---|---|
| Magnús V. | 1162 árum. |
| Sverrir | 1186. |
| Hákon III. | 1202. |
| Guttormur | 1204. |
| Ingi II. | 1205. |
| Hákon IV. Gamli | 1217. |
| Magnús Lagabœtir | 1263. |
| Eiríkur Prestahatari | 1280. |
| Hákon V. | 1299. |
| Magnús Smek | 1319. |
| Hákon VI | 1343. |
| Kóngar yfir Danmørku og Norvegi. | |
| Olafúr tók ad rikja { í Danmørku | 1375. |
| í Norvegi | 1380. |
| Margret | 1387. |
| Eiríkur af Pommern | 1412. |
| Kristóphor af Bayern | 1439. |
| Kristján I. | 1448. |
| Hans | 1481. |
| Kristján II. | 1513. |
| Fridrik I. | 1523. |
| Kristján III. | 1533. |
| Fridrik II. | 1559. |
| Kristján IV. | 1588. |
| Fridrik III. | 1648. |
| Kristján V. | 1670. |
| Fridrik IV. | 1699. |
| Kristján VI. | 1730. |
| FRIDRIK V. | 1746. |
| KRISTJAN VII. | 1766. |





# III. Islands Saga.

## I.

### Frá Landnáms tíd til Kristni løgtekjunnar, milli áranna 874 og 1000.

1. Island, sem ádur hafdi verid fundid af Irum, var sídan fundid og byggt af Nordmønnum á døgum Haralds Hárfagra Norvegs Kóngs.

Naddoddur, Gardar og Flóki fundu Island, en Ingólfur tók sér þar fyrstur varanlega bólfestu; eptir þad safnadist hingad fjøldi Nordmanna, sem flúdi undan sigursældum og ofriki Haralds Hárfagra. Þetta fólk flutti med sér alla sína norsku sidi, akur-yrkju og fjár-rækt, Eptir Kristsfædíngu 874.



rækt,

rækt, kauphendlan, en undireins sjóvíkingskap.

Islendingar vóru í fyrstu, eins og Nordmenn um þar mundir, lagalaus og lítt sidud þjód, en í frelsinu tóku þeir skjótum framförum, land-yrkjan komst í blóma, og margir sýndu sig í hetjulegum dygdum; landsfólkid tók líka yfir sig Lögmenn, og landid vard þad einasta, er þá stjórnadist sem Frìland, fyrir nordan Alpa-fjöll, hvörs innbyggjarar líka tóku sér bólfestu á Grænlandi, og innfærdu þar líkann stjórnar-máta.

2. Fyrir umtölur Norvegs Kóngsins Olafs Tryggvasonar, lögtóku Islendingar kristni á Alþingi.

Þegar nokkrir í landinu vóru ádur ordnir kristnir, keypti
1000. einn af þeim, Hallur af Sídu, ad Þorgeiri Ljósvetnínga Goda, heidnum, ad uppsegja kristni

kristni lögin þanninn, ad öll höfud atridi hans álygtunar skyldu hueigjast eptir kristinna vild, en í ödrum smærri skyldi haun mega laga sig eptir þenkíngar = hætti hinna heidnu; þetta rád luckadist, og kristnin fékk yfirhend.

## II.

Frá kristninnar innfærslu, til þess landid kom undir Norvegs Kóng, edur frá árinu 1000 til 1264.

1. Med kristinndóminum urdu sidirnir smámsaman mýkri, og loksins afrókust nær því öll vígaferli.

Fyrst eptir kristninnar innfærslu, munadi sidunum litid, hvar um Njáls = brenna og fleiri siór-virki bera vitni, en 1011.
ad þeim mönnum daudum, sem heidnina höfdu inndruckid úngir, vard á þessu mestur munur.

Kaupþendlan og akur-yrkja stódu í stad, sú seinni fór jafnvel vaxandi.

Biskupsdómar vóru inn-
1056. færdir, fyrst í Skálholtti, hvar Isleifur var fyrsti Biskup;
1107. sídan á Hólum, þar var hinn fyrsti Jón Ogmundsson. Gissur Biskup, sonur Isleifs kom því á, ad almenni-
1096. leg tíund var vidtekin; og litlu
1118. sídar vóru lands-lögin endurbætt.

Lærdómarnir komu upp og tóku brádum þroska, skáldskap-ar-ment, sagna-frædi, túngu-mál og stjörnar-vísindi vóru, eptir því, sem vænta st kunni á þeirri öld, í mesta blóma, og margir Islendíngar ferduduſt til háskólanna í París og annarstadar í útlendum.

2. Eptir dauda Gissurs Biskups hnignadi sídunum, en lærdómar og mentir vidhéldust enn þá.

Løgbækurnar, Kristinn-rétt-
ur Þorláks og Ketills og 1123.
Grágás vóru samanteknar;
helgra manna tilbeidsla vóx,
einkum eptir það Þorlákur
Biskup vard heilagur. Loks-
ins byrjadist ófridur í landinu
millum Einars Þorgilssonar
og Sturlu Þórdarsonar, og
Gudmundur kalladur hinn
dýri, brenndi inni óvin sinn
Önund í Langahlíd. 1197.

Nafnkunnugustu lærdir menn
vóru: Gissur Hallsson, Ari
og Sæmundur Fródi.

3. Vegna rángrar upp-
frædingar í kristinndómin-
um, og hégilju-háttar Bisk-
upanna, orsakadist óeyrdar-
öld.

Biskupinn Gudmundur
Gódi egndi med flacki sínu og
hégiljum stórbocka uppá sig;
jafnframt því var kristinndóm-
urinn svo illa skilinn, ad ill-
rædis-menn létu jafnan leysa
sig, ad afstödnu illvirki, til ad

 fremja

fremja strax annad nýtt; Páfa-veldid vóx ódum, og øll løg urdu fótum trodin.

Ofbeldis-mennirnir: Þorvalldur í Vatnfirdi, sem var stakt illmenni, Sturla Sigvatsson, Kolbeinn Ungi og fleiri, fremdu mørg manndráp, og í landinu urdu stórir bar-
1239. dagar, t. d.: á Ørlygstødum þar sem Sturla féll.

Þórdur Kakali, bródir Sturlu, hádi tvo stóra bar-
1244. daga vid óvini sína Kolbein og
1246. Brand, og vard sídan ad mesluleiti Einvaldsherra lands-ins; en Gissur Þorvallds-son, sem vildi yfirstíga hann, vann þad til, ad gefa sig und-ir Norvegs Kónginn Hákon Gamla, sem nýtti sér landsins ófrid, ad koma því undir sig, kom Þórdi til ad fara med sér utan, hvadan hann slapp ecki aptur, og eyddi þeim øllum, sem hann gat ecki yfir-talad ad gánga undir Kóng-stjórnina. Ept-

Eptir mikinn ófrid innanlands, gengu Islendíngar 1264.
undir Norvegs Kóng viljuglega, hvørr þá setti Gissur fyrir Jarl sinn yfir landid, en uppfrá því dofnudu allar þess framqvæmdir.

Lærdóms-menn þessarar aldar vóru margir, Snorri Sturluson, sem lífláttinn var af Gissuri, og Sturla Þórdarson, bádir Løgmenn, vóru nafnkénndastir.

## III.

Frá því landid kom undir Kóng, til fullkominnar innfærslu Lúthersku trúar-bragdanna, edur frá árinu 1264 til 1550.

1. Biskupa-maktin fór vaxandi, svo allir adrir urdu ad lægja seglin fyrir henni.

Arni Biskup, sem kalladur var Stada-Arni, hóf fyrstur ad kalla eptir øllum þeim jørdum, sem kirkjur vóru byggdar á, hann fékk lengi mót-

ſtødu af Rafni Oddsſyni og fleirum, en hreppti þó um ſídir yfirhønd; þadan af fór Biſkups valdid æ meir og meir vaxandi.

2. Kóngurinn í Norvegi tók ſtrax ad hafa afſkipti af landſins ſtjórn.

1280. Norveges Kóngurinn Magnús Lagabætir gaf Islendíngum ſoo kallada Jónsbók; hann ſetti nýann yfirmann yfir landid med Hyrdſtjóra-nafni, og ſýſlur vóru veittar, þó ecki ſem nú, heldur yfirmáta ſtórar uppá óviſs takmerk, og óviſſa tíd. Landid héldt þó ſínum Løgmønnum.

1300 og þar eptir. Innanſkamms misbrúkudu Hyrdſtjórarnir veld ſín, og landſtjórnin øll framfór í meſta ólagi. Løgmennirnir vóru margir í einu. Þar ad auki brennumerkja lærdómanna nidurdrep, kaupferdanna og akuryrkjunnar hnignan, rángindi og lagaleyſi, jardeldar, gras-

breſtur

brestur og allar landplágur, hina 14du øld, framar øllum ødrum Islands øldum.

3. Sú mikla pest, sem Islendskir kalla Svarta dauda, gjørdi enda á ókjørum 14du aldarinnar.

Svarti daudi géck í midri 14du øld annarstadar, en Islands árbækur kalla svo þá miklu pest, sem í upphafi 15du aldarinnar eydilagdi þetta land, 1402.
þá féll akur-yrkjan og allir adrir vidburdir fyrri manna til landsins fremunar, ad fullu og øllu.

Þeir ríku menn, sem á þessari øld lifdu, og útvegudu sér Adals-rétt, verdskulda ecki í ágripi þessu ad nefnast hvørr sérilagi, ad undanteknum Lopti Guttormssyni, sem líka hefir látid eptir sig gód skáldmæli. Sem Biskup er Vilchin nafnfrægur fyrir kirkju-máldagana,

4. Við Oldenborgar Kónganna stjórn, skánaði landsins tilstand, urðu þó eingin notin til lángframa, því misbrúkað Biskupa-veldi, ránskapur Enskra, sem höndluðu við landið, og ný pest, eydilögðu það.

Kristján I. aftók aðskiljanlega ósiði, með svokallaðri laungu Réttarbót, hann og hans næstu afkomendur gáfu nockrum Íslendskum Aðals-rétt, hvorra karl-leggur er þó margra út-dauður.

1494. 90 árum eptir fyrri pestina, gëck önnur yfir það viðbjarnandi land, og tók í burtu alla 2 þriðjúnga landsfólksins.

Engelskir, sem höndluðu við landið, gjörðu margann óróa, svo kom til bardaga milli þeirra og landsmanna; en eptir það komst höndlunin í Þýðskra hendur.

Yfirgángur Biskupanna jókst úr hófi, einkum kúguðu Ol-

Olofur Rögnvalldsson, Gottskálk og Stefán ædri og lægri menn með barnsærlugum, kárlnum og skriftum, og tóku af mergum allar þeirra eignir fyrir litlar sakir, helst Gottskálk Dóu 1520.
Biskup af Jóni Lögmanni Sigmundssyni.

Banþeckingin, hjátrúin og ófrelsið fór dag-vaxtum; hér, eins og annarstaðar í Páfalendunum.

5. Þeir tveir síðurstu kathólsku Biskupar voru ecki síður lagaðir til hermanna; sá seinni setti sig með makt á móti lútherskú trúarbrøgðunum.

Biskuparnir Øgmundur og Jón Arason høfðu næri barist á Alþingi; sá fyrri komst 1525.
í óvild við danska, hvar fyrir þeir nyttu sér hans trúarbrøgð, til að flytja hann burt úr landi, þegar Kristján Kóngur III. hafði sendt lútherskann Biskup Gissur Einarsson til Skál- 1541.
hollts.

hollts. Sá seinni, sem fyrstur leiddi Prentverk inn í landid, fylgdi Páfa-trúnni med valdi, og reiddi sig á styrk sona sinna innanlands, en á makt Keisarans Karls V., sem þá stríddi vid lútherska, utanlands; loksins vard hann fánginn, og ásamt
1550. sonum sínum tveimur líflátinn, án dóms og án Kóngs adqvæda. Sídan hafa bædi andlegrar- og veraldlegrar-stéttar-menn Íslands, ad ellu leiti hángid af Dønskum, og ega engu ødru ad þacka, ad þeim ecki hefir verid í ellu misbodid, enn þeirrar Oldinborgisku Stjórnar mildi, og Dana varandi upplýsíngu.

## IV.

Frá fullkomnini innfærslu Lúthers trúar-bragda, til Norsku-Laga útgáfu og Amtmannanna upphafs hjer í landi, nl. frá 1550 til 1688.

1. Landsins andlega og veraldlega stjórn tók framfør-

førum eptir lútherſku trúarbragdanna innfærſlu.

Hyrdſtjórinn Páll Stigs- 1560.
ſon gjørdi margar innréttingar
í laudinu, ţarfar ſídunnum og
hinni lútherſku trú. Oddur
Gottſkálksſon útlagdi Nýa
Teſtamentid, og Gudbrandur
Biſkup Bibliuna, hvørja hann 1584.
ſlíka lét prenta. Klauſtur og
ſýſlur vóru léntar af Kóngin-
um fyrir víſt afgjald, og landid
komſt mikinnpart í nærverandi
form.

2. Jſkyndíngu vóru tek-
in øll vopn af landsfólkinu,
og þó dæmt væri ſeinna meir,
ad hvørr madur ſkyldi eiga
hlífdar-vopn, hafdi þad eng-
ann framgáng.

Valda-menn landſins, med-
al hvorra Jón Løgmadur var
ſá meſti, toku med valdi allar
verjur frá lands-fólkinu, máſkê
til ad hræſna fyrir Dønſkum;
og þó Magnús Jónsſon léti
dæma hvørn mann ſkyldugann
ad

ad ega hlífdar-vopn, vard þad ecki framgengt. Þetta hafdi illar afleidíngar, því bædi rændu Enskir í Vestmanaeyum og Spanskir á Vestfjørdum, en einkanlega Tyrkjar frá Algier í Vestmannaeyum, hertóku þar margt
1672. fólk, og drápu margt.

3. Þó ad upplýsíngunni færi fram, lagdi samt alþýdan mikla trú á galdra, og Høfdíngjar ofsóktu hardlega galdra-mennina.

Medal þeirra mørgu lærdu á 17du øld, má einkanlega telja fødurlands vininn, Gudbrand Biskup, sem þó komst ei af, án størrar ofsóknar Jóns Løgmanns og annara. Brinjólf-Biskup, Arngrim Prófast lærda, og Pál Prófast í Selárdal. Annala tóku menn og ad skrifa, og rétt góð skáld vóru ecki all-fá.

Undireins ebldist þó ecki lítid hjá almúganum galdra- og álfatrúin, sem vissir ill-viljadir menn útbreiddu, einkum einn Jón Gud-

Gudmundsson, svokalladur Lærdi; Landshøfdingjarnir, sjerílagi Løgmadurinn Þorleifur Kortsson, létu brenna marga af galdra-mønnunum.

4. Henrik Bjelke var sá seinasti Hyrdstjóri á Islandi, og Ulrich Kr. Gyldenløve fyrsti Stiptamtmadur.

Hyrdstjórinn Henrik Bjelke var bædi lengi vid embætti og líka þarfur; eptir hans dauda 1683. hafdi Landfógetinn mestu vøld í landinu, þar til Gyldenløve feck landid í lén sem Stiptamtmadur, hann hafdi hér fullmektuga, en kom hingad ecki sjálfur; á hans døgum komu hingad a) Norsku-løg, útgéfin árid ádur, og sá fyrsti Amtmadur Kristján Muller. 1688.

## V.

Frá 1688 til 18du Aldavinnar enda. 1. Med

a) Svo segir Biskup Dr. Finnur í Tímatali aptan vid Hist. Eccl.

1. Med Amtmønnunum og Norsku-løgum kom nýr réttargángs máti.

I stad þess ad ádur dæmdu margir, en einn samþyckti dóminn, var nú dóma réttargángurinn lagadur eptir Norsku-løgum, lika svo, ádur brúkanlegir Sjøttar- og Tylftar-eidar aftekuir; þar ad auki hefir innfærst, ad skipta ørfum og dæma sakamenn og svo eptir Norsku-løgum.

2. Kóngurinn Fridrik IV. var eptirlitasamur Islandi, eins og ødrum sinum løndum til hagsmuna. Nyr heudlunar-taxti var á hans døgum útvegadur fyrir landid, sem lengi héldst og vard notabetri í mørgu, enn adrir seinni, hvar til frumqvødull var Løgmadurinn Lauritz Gottrup.

Snemma í 18du øld, var annars mjøg deilusamt hér í landi milli Løgmannanna Odds Sigurdssonar, Páls Vída-

lins

líns, og annara heldri manna. Páll Vída-
lín var annars nafnfrægur fyrir lærdóm
sinn, og var náfominn þeim mælska Bisk-
upi Jóni Vídalín.

3. Smámsaman urdu íslendskir
Amtmenn fyrst einn, og sídan fleiri.
Magnús Gíslason var sá fyrsti ís-
lendskur Amtmadur, yfir allt Ísland;
en Landfógétar hefdu reikninga Kóngs
undir hendum, sídan Amtmenn komu; loks-
ins vard landinu skipt í 3 Ömt, og var þó
Stiptamtmadur ad auki, af hverjum sá
fyrsti, íslendskur eda innfæddur, var O-
lafur Stephánsson.

4. Adskiljanleg áföll gengu yfir land-
id á stjórnar-árum Kristjáns VII.
Auk hardinda og jard elda, má maklega
telja fjárpestina fyrir hid mesta áfelli lands-
ins megunar; hardindi og bólusóttir hafa
gengid optar.

5. Ýmsar umbreytíngar hafa nú á
seinasta mannsaldri verid reyndar, og
sumar ordid ad gagni.

Túngarda-hledslur, kálgarda-rækt og
margt annad, hefir verid uppábodid, sem því
midur! ei hefir verid svo eptirlifad sem
skyldi.

Sabr-

Fabríkur og handverk hafa enn ecki luckast ad stadaldri í landinu, og akur-yrkjan aldrei verid reynd ad rádi.

Prentverk, fyrir veraldlegar bækur, var fyrst innfært í Hrappsey, sídan fluttist þao til Leirárgarda, hvar því var samansteypt vid Hóla-prentverk, og upplýsing í lærdómnunum hefir mikid aukist.

Landid hefir haft marga lærda menn, hvörra minning er enn hjá øllum; líkafvo hafa Islendskir hafid Lærdóms-fjeløg bædi hjer, og í Danmørku.

Høndlunin hefir verid giefin frí, en þeir útlendsku hafa mest notid frìheitanna, svo sem þeir, ed alls kosti hafa átt vid Islendínga.

Biskups-stólarnir bádir hafa verid afteknir, og beggja jardir uppbodnar; þær fyrri ɔ: Skálholts-jardir, eru þegar seldar laungu fyrir aldarinnar útgáng; þar á móti á landid allt ad hafa einn Biskup, sem búa skal í þeim uppriísandi Kaupstad, Reykjavík.

Løgþíngid gamla og nockrastund ádur brúkadur Yfir-rjettur, vóru samansteypt, og þar í stadinn tilskipadur almennilegur Lands-Yfir-rjettur, í hvörjum eru tilskipadir einn Justitiarius og tveir Assessórar.

Þannin var Islands ástand í 18du aldar lokin, og menn vænta eptir fleiri umbreytíngum.



Tíma-

# Tímatals uppteiknan
## yfir Íslands hellstu tilburdi.

I. Frá Íslands byggingu til Kristni løgtekinnar, 126 ár.

Ár. ept. Kr. f.

874. Var Ísland byggt af Nordmønnum.
928. Var sett Løgþing vid Øxará fyrst.
930. Vard Rafn fyrsti Løgmadur.

II. Frá byrjun Kristninnar til Kóngsstjórnar yfir Íslandi, 264 ár.

1000. Løgtekin Kristnin á Íslandi.
1011. Skjedi Njálsbrenna.
1056. Fyrsti Biskup vígdur til Skálhollts.
1096. Tíund vidtekin.
1107. Biskups dómur settur á Hólum.
1118. Samanskrifud Løgbókin Vígslódi.
1197. Launguhlídar brenna.
1239. Fall Sturlu á Ørlygsstødum.
1244. Þórdur Kakali berst vid Kolbein Unga.
1246. Sami sigrar Brand Kolbeinsson.
1264. Íslendingar gánga undir Kóng.

III. Frá því Island kom undir Kóng, til Luthers trúarbragða innfærslu, 286 ár.

Ar ept. Kr. f.
1271. Løgbókin Járnsída kiemur til Islands.
1275. Kristni-rjettur Arna Biskups løgleiddur.
1280. Kom Jóns-bók út híngad.
1298. Deydi Stada-Arni Biskup.
1362. Var Smidur Hyrdstjóri og Jón Løgmadur Skráveisa drepnir í Grundar-bardaga fyrir íllvirki.
1402. Gjeck stór pest yfir Island.
1433. Dreckt Jóni Biskupi Gerreksfyni í Brúará.
1468. Drápu Enskir ríka Bjørn Hyrdstjóra í Rift.
1494. Gjeck pest yfir Island.
1502. Drepinn Leonhardus Fógjeti fyrir íllvirki.
1518. Hálshøggvinn Thyle Hyrdstjóri.
1539. Drepinn Hyrdstjórinn Didrik von Mynden í Skálholti.
1541. Øgmundur Biskup fánginn burtfluttur.
1550. Var Jón Biskup Arason og synir hans líflátnir.

IV. Frá lútherfku trúnni til Amtmannanna, 158 ár.

1551.

Ár. ept. Kr. f.

1551. Drápu Nordlendskir Kristján Skrifara á Bessastødum.

1560. Vard Páll Stigson Hyrdstjóri.

1565. Dæmdur Stóri-dómur.

1584. Kom út Biblían prentud.

1618. Komu Commissarii híngad í land, dæmdu þeir mørg mál.

1627. Rændu Tyrkjar Vestmannaeyar.

1649. Henrik Bjelke vard Hyrdstjóri.

1684. Ulrich Gyldenløve vard Stiptamtmadur.

## V. Frá Amtmønnunum til 18du Aldar loka, 112. ár.

1688. Kom hjer fyrsti Amtmadur med nýar innrjettíngar.

1707. Gjeck stóra bóla (svo kollud).

1757. Magnús Gíslason vard Amtmadur.

1761. Utdreifdist fjárpestin.

1773. Prentverk innfært í Hrappsey.

1785. Skálholts Biskups-stóls-jardir seldar.

1786. Kauphøndlunin var gjefin frí.

1790. Olafur Stephánsson vard Stiptamtmadur.

1800. Lands-Yfirrjetturinn tilskipadur.

1800. Kommissión sett, til Fasteigna verdleggíngar á Íslandi.



